Indriði Einarsson:

# Skipið sekkur.

## Sjónleikur í fjórum þáttum.

---

**Einkunnarorð:**
„Det ena du vill, det andra du skall,
så plär det mest gå i dylika fall“.
*Kerstín Svíadrottning*
(risti með demanti á rúðu).

Bessastaðir.
Kostnaðarmaður: Skúli Thoroddsen.
Prentsmiðja Þjóðviljans.
1902.

## PERSÓNUR:

JOHNSEN, verzlunarstjóri.
Frú SIGRÍÐUR, kona hans.
BRYNHILDUR, dóttir þeirra.
EINAR, bókhaldari hjá Johnsen.
KRISTJÁN, kandídat í læknisfræði.
HJÁLMAR, utanbæjarmaður.
THORKELIN, kaupmaður.
Frú THORKELIN, kona hans.
Frú GUÐRÍÐUR.
SIGURÐUR. }
GUNNAR. } stúdentar.
GÍSLI. }
*Einn læknir*, *þjónn* á hótelli, *forstöðumaður* fyrir dansleik, *dansandi menn* og *konur*.

---

Fer fram í Reykjavík nú á dögum.

# I. þáttur.

---

[Leiksviðið er fín stofa. Til vinstri handar eru tveir gluggar, báðir með fínum, ljósleitum gluggatjöldum. Efri gluggann má opna, fremri glugginn er þakinn með rósatrjám með fjölda af útsprungnum rósum; undir efri glugganum er blómsturtrappa með jurtapottum og blómstrum. Nálægt fremri glugganum er saumaborð með stólum. Í horninu efst til vinstri er sófi með borði og stólum í kring. Gaflinn á móti áhorfendunum er hálfur nær þeim, en hálfur fjær, [illegible] í að forstofugangurinn er þiljaður af stofunni. H[illegible] út í forstofuna opnast inn í stofuna, og er [illegible]urð. Hjörurnar á henni snúa beint fram, læs[illegible]n beint út að gaflinum á húsinu. Á gaflinum [illegible]u parti stofunnar, sem fjær er,) er gluggi, út um [illegible]nn sést ofan á ribsrunna, en að öðru leyti skyggir [illegible]álað timburhús fyrir sjón. Ofarlega hægra megin, er fortepíanó, fyrir framan endann á því eru dyr fram í eldhúsið. Framar eru dyr fram í skrifstofuna. Við vegginn til hægri er Chaiselong. Myndir eru á veggjum og allt laglegt inni.

E i n a r bókhaldari og J o h n s e n verzlunarstjóri eru inni. Johnsen er fimmtugur að útliti, nokkuð rauður í andliti og á veiðifötum.]

EINAR:

Ekki að bölfa peningunum, Johnsen, peningar eru gull. Þeim er að þakka flest, sem fagurt er í mannlífinu, og þriðjungurinn af allri veraldarinnar lukku.

JOHNSEN:

Og helmingurinn af öllu óláni og allri bölfun.

EINAR:

Hérna inni truflar okkur enginn úr búðinni. Jeg hef verið að gjöra upp verzlunarreikningana

JOHNSEN:

Nú í ágúst! — Því má það ekki bíða?

EINAR:

Verzlunareigandinn vill hafa það svo. — Í hitt ið fyrra varstu í 1000 kr. skuld, í fyrra í 2500 kr. skuld og það var látið standa.

JOHNSEN:

Jeg átti þá enga jörð til að selja upp í það.

EINAR:

Þú áttir aldrei neina jörð, Johnsen. Frú

Sigríður átti þær allar — hreint allar — áður en þið giptuzt.

JOHNSEN:

Já, með konunni minni heldur þú.

EINAR:

Hef æfinlega gjört!

JOHNSEN:

Gjöri æfinlega! — Nú má jeg ekki hafa átt þessi kot? Jeg lagði til stöðuna í búið, mér sýnist hún ekki hafa verið ofgóð til að leggja til kotin.

EINAR:

Þarf einu sinni að tala við þig eins og maður við mann. — Jarðirnar eru farnar út í veður og vínföng, staðan þín í hættu, nema skuldin sé borguð. Skútan flýtur bara á pumpunum. Verzlunin hérna gefur minni og minni arð á hverju ári og mér skipað að gjöra upp nú.

JOHNSEN:

Þér skipað — gjörðu upp í fja...

EINAR:

Nú sýnist mér skuldin svo stór, að jeg trúi ekki mínum eigin augum. (blíður). Komdu og

vertu í verki með mér, Johnsen, þú finnur kannske eitthvað þér í hag, sem mér hefur yfirsést. Það verður að gjörast strax.

JOHNSEN:

Jeg að vinna nú! Eptir hálftíma fer jeg burtu og verð að skjóta í 8 daga, eins og jeg er vanur á hverju sumri. Jeg þarf frí, vinn jeg ekki allt af baki brotnu?

EINAR:

Alveg hættur að gjöra nokkurn skapaðan hlut. Jeg tala í alvöru — vegna frú Sigríðar.

JOHNSEN:

Auðvitað ekki mín vegna!

EINAR:

Þú drekkur baki brotnu, Johnsen!

JOHNSEN:

En sú ósvífni! Jeg er faktorinn, en þú ert bara bókhaldari hérna, Einar!

EINAR:

Heyrt það fyrir löngu, Johnsen! Kann það á fingrunum! — Sjónina hefurðu misst, þú sérð ekki rotturnar hérna í búðinni.

JOHNSEN:

Koma búðarrotturnar enn! — Útvegaðu kött!

EINAR:

Þurfum kött, sem tekur þær tvífættar. — Vertu kyrr heima, með enska skipinu koma bréf, og þau verða ekki öll gleðileg.

JOHNSEN:

Finnst þjer það eiga við Einar að skrifa verzlunareigandanum og þjónum hans fyrir aptan bakið á mér.

EINAR:

Hef aldrei skrifað fyrir aptan nokkurs manns bak. Þú vilt hvorki sjá bréfin, sem jeg skrifa, né bréfin, sem jeg fæ. Nú eru boðar fyrir stafni, Johnsen, hjálpaðu mér til að stýra í gegnum þá.

JOHNSEN:

Öll alvarleg störf verða að bíða í 8 daga. Jeg hef frí. — Fjandinn taki alla peninga!
(Fer fram á kontórinn).

EINAR:

Dýrt frí, því miður! Og þú, sem ert búinn að eiga frí í átta ár. (Fer fram á eptir honum).

BRYNHILDUR,

(kemur inn um forstofudyrnar, hún litast um, lagar blómstur í blómsturtröppunni, gengur að fortepíanóinu, tekur standandi nokkur grip á hljóðfærið, hún gengur svo að efri dyrunum til hægri og kallar fram):

Mamma! — Mamma! ertu þarna frammi!

Frú SIGRÍÐUR,

(fyrir utan):

Já, jeg kem! (kemur inn). Hvað viltu Hadda mín? Það liggur svo vel á þér, hefur nokkuð komið fyrir þig meðan þú varst úti?

BRYNHILDUR:

Liggur svo vel á mér? — Það er þá sólskinið móðir mín. Undir eins og sólin skín, gladnar yfir öllu.

Frú SIGRÍÐUR,

(brosir):

Já, það er víst sólskinið! — Hvað vildirðu mér?

BRYNHILDUR:

Það var ekki annað en — —. Jeg held þú megir ekki fara út í dag mamma. Við — — þú átt von á gestum. — — Kandídat Kristján kemur — — held jeg — — rétt bráðum.

Frú SIGRÍÐUR:

Nú! (brosir). Kemur hann að finna mig?

BRYNHILDUR:

Hann kemur svona bara til að koma hér.

Frú SIGRÍÐUR:

Er hann að kveðja? Hann siglir með póstskipinu.

BRYNHILDUR:

Jeg veit ekki, — — þú manst, að jeg hef allt af sagt, að hann dansaði svo vel!

Frú SIGRÍÐUR,
(brosir aptur):

Kemur hann hingað til að dansa við mig?

BRYNHILDUR:

Það getur verið. — — En svo sagði hann, að það væri von á öðrum manni langt að. Hann ætlar að koma hingað kl. 5. Kristján og hann yrðu samferða hingað, hann hafði fjölda af gráum gæðingum, og þeir urðu beztu vinir á leiðinni.

Frú SIGRÍÐUR:

Það eru góð meðmæli með manninum! — Hvað heitir hann?

BRYNHILDUR:

Maðurinn þekkir þig eitthvað, en jeg man ekki hvað hann heitir.

Frú SIGRÍÐUR:

Er það prestur?

BRYNHILDUR:

Jeg held ekki.

Frú SIGRÍÐUR:

Er það verzlunarmaður?

BRYNHILDUR:

Jeg held ekki.

Frú SIGRÍÐUR:

Hvað er hann þá?

BRYNHILDUR:

Það er líklega einhver, sem hefur verið dálítið ástfanginn í þér, þegar þú varst ung, mamma!

Frú SIGRÍÐUR:

Ekki getur hann hafa lifað á því! (Johnsen kemur inn framan af kontórnum).

JOHNSEN:

Nú Sigríður, eruð þið hér!

Frú Sigríður:

Við erum hér optast báðar!

Johnsen:

Jeg þarf að tala við ykkur.

Brynhildur:

Og mig líka?

Johnsen:

Þig fyrst og fremst.

Brynhildur:

Jeg vildi þá óska, að það væri eitthvað skemmtilegt. — Við mæðgurnar höfum ekki komið á hestbak í allt sumar.

Johnsen:

Jeg þarf sjálfur að brúka hestana.

Brynhildur:

Þú ættir að þekkja betur þitt eigið blóð, faðir minn!

Johnsen:

Þig svo sem? — Þakkaðu guði fyrir, að þú ert ekki lík mér, Brynhildur.

Frú Sigríður:

Hvað vildir þú okkur?

JOHNSEN:

Það er dans í klúbbnum í kvöld kl. 7. Þið ættuð að fara þangað.

BRYNHILDUR:

Dans, dans, dans. Jeg er tilbúin.

Frú SIGRÍÐUR:

Þú ert ferðbúinn. Ætlar þú ekki með okkur?

JOHNSEN:

Jeg ætla upp fyrir árnar og get ekki dregið það.

Frú SIGRÍÐUR:

Jeg vildi fá einhverja skynsama ástæðu fyrir því, hvers vegna jeg á að fara.

JOHNSEN:

Af því, að dansinn verður skemmtilegur, — af því, að nú eru margir ungir menn í bænum, — af því, að Brynhildur litla þarf að skemmta sér.

Frú SIGRÍÐUR:

Það er nú ekki nema stundum, að þér finnst, að hún þurfi þess.

Johnsen:

Heyrðu! (Þau ganga fram á leiksviðið). Hefur kandídat Kristján ekki komið hingað?

Frú Sigríður:

Jú, til að heilsa upp á okkur.

Johnsen:

Því heilsaði hann ekki upp á mig?

Frú Sigríður:

Þú varst ekki heima. — Nú er hans von á hverri stundinni.

Johnsen:

Hann hefur skrifað sig á dansinn. — Þess vegna ætti Brynhildur. — Gengur annars ekkert með þau?

Frú Sigríður:

Ekki hef jeg tekið eptir því.

Johnsen:

Þú sérð aldrei neitt! — (Fer til Brynhildar). Já, svo farið þið!

Brynhildur:

Já, ef mamma fer.

Frú Sigríður:

Jeg veit ekki hvort jeg hef allt til, sem jeg þarf.

Johnsen:

Þá tekur þú þig til og lætur það vera tilbúið. — Mér er ekki eins illa við neitt, eins og öll þessi orð.

Frú Sigríður:

Þá þekki jeg annað, sem verra er.

Johnsen:

Hvað svo sem?

Frú Sigríður:

Verk!

Johnsen:

Mér kemur ekkert við hvað er verst, og hvað er ekki verst. (Fer fram á kontórinn og skellir hurðinni).

Frú Sigríður,
(tekur til höfuðsins):

Þessi hurð! Þessi hurð!

Brynhildur:

Eigum við að sitja heima?

Frú SIGRÍÐUR:

Nei, þú skalt ekki þurfa þess mín vegna.

BRYNHILDUR:

Þú ert sú elskulegasta móðir, sem jeg á.
(Kyssir hana).

Frú SIGRÍÐUR:

Það er jeg alveg viss um líka.
(Einar kemur inn af kontórnum).

EINAR:

Johnsen er farinn burt.

Frú SIGRÍÐUR:

Já, hann ætlaði upp fyrir ár, sagði hann mér.

EINAR:

Langt upp fyrir ár, með hreindýrariffil — fyrirtaks vopn —, tvíhleypta haglabyssu, koffort á einum hesti, og 12 flöskur af whisky og konjaki.

Frú SIGRÍÐUR:

Nú. — (Lægra). Átta daga í burtu!

EINAR:

Jeg þarf að tala við yður, frú Johnsen!

BRYNHILDUR:

Jeg sé, að jeg á ekki að heyra það. Mamma! jeg fer upp á lopt og lít eptir fötunum mínum; þú kallar á mig, ef einhver kemur. (Hún hneigir sig fyrir Einari ofur lítið). Jeg hlusta ekki á ill tíðindi í dag. (Fer út um efri dyrnar til hægri).

Frú SIGRÍÐUR:

Það er þessi vanalegi túr á hverju sumri. (Lítur á Einar). Þér eruð svo alvarlegur. — Eru það skotvopnin? — Johnsen er víst ekki lukkulegur, en svo ólukkulegur er hann ekki, að hann hafi þau á sjálfan sig.

EINAR:

Argasta hundalíf að drekka, frú Johnsen! Ekki yður að kenna heldur. (Alvarlegur). Það, sem jeg vildi segja yður nú, er, að Johnsen er kominn í botnlausa skuld hér við verzlunina, og jeg er hræddur um, að hann verði látinn fara frá, sem allra fyrst.

Frú SIGRÍÐUR:

Ja aumingja maðurinn! — Á jeg engar jarðir eptir?

EINAR:

Allar seldar! — Þér eigið ekki svo mikið sem ofurlítið eyðisker til að standa á.

Frú SIGRÍÐUR:

Heimili manns, eins og hann er, er æfinlega byggt undir brattri fjallshlíð. Eptir regn eða leysingar falla skriðurnar ofan til beggja handa, sú síðasta fellur yfir húsið, hún molar og brýtur það í smáagnir, og ber það út á sjóinn.

EINAR:

Hafið þér vitað af þessari hættu, frú Johnsen?

Frú SIGRÍÐUR:

Jeg hef vitað af yfirvofandi hættu yfir höfði mér. Ógæfan er stór hræfugl. Þótt hún komi yfir mann utan úr náttmyrkrinu, þá flýgur hún sjaldan svo hljótt, að við heyrum ekki vængjaþytinn áður en hún hremmir okkur.

EINAR:

Jeg býst við, að hér verði að selja allt, og að heimilið megi leysast algjörlega upp.

Frú SIGRÍÐUR,
(með tilfinningu):

Aumingja Brynhildur!

EINAR:

Brynhildur! — engin vandræði með hana,

hún getur fengið pláss hérna í búðinni. — En Johnsen, eins og hann er kominn, — og þér sjálfar, frú Johnsen!

Frú SIGRÍÐUR:

Jeg — jeg?

EINAR:

Eina ráðið, sem jeg þekki, væri að þér skilduð alveg við hann.

Frú SIGRÍÐUR,

(stendur forviða og horfir á hann):

Og það segið þér! En umtalið — mannorðið?

EINAR:

Já víst, já víst. — Veit upp á hár hvað mannorð vanalegast er. Það er málæðis álit þvaðurkerlinga, sem ýmist eru í pilsi, eða á buxum. Nei, skilja algjörlega, frú! — algjörlega hreint, og þakka guði fyrir að vera lausar úr hlekkjunum, sem opt fjötra það fólk saman, sem aldrei hefði átt að sjást.

Frú SIGRÍÐUR:

Jeg gjöri það líklega aldrei, Einar! (Brosir). Jeg er svo hrædd um, að jeg sjái það í grafskriptinni minni. Þangað til hún kemur, þá

eru þessar — þessar sem þér nefnduð. (Alvarleg). Segið þér mér, Einar, hvað ætti jeg eiginlega að gjöra af mér? Jeg kann ekki að hafa ofan af fyrir mér með neinu — jeg kann ekki að vera bláfátæk — og hef ekki krapta til að bera vatn.

EINAR,

(kemur nær henni):

Nú er fegursta augnablikið, sem jeg hef lifað, frú! Og nú spyr jeg yður, vitið þér ekki, að þér eigið hálfbróður, sem getur hjálpað yður? Í stöðu, sem þér hafið útvegað honum?

Frú SIGRÍÐUR:

Sko! Sko! Svo það er þá til einn maður, sem á mér nokkuð að þakka. — Vitið þér það, að jeg á hálfbróður? Því hafið þér aldrei sagt neitt?

EINAR:

Varð að þegja meðan móðir mín lifði. — Það var einasta leyndarmálið, sem hennar hjarta átti. — Henni varð að hlífa. Langaði mikið til að þurfa þess ekki.

Frú SIGRÍÐUR:

Já, aumingjinn! — Hún hefur náttúrlega

verið hrædd við þessar á pilsunum — og þessar á buxunum. — Þér voruð henni góður sonur, og góður hálfbróðir hafið þér æfinlega verið, það get jeg borið um.

EINAR,

(lækkar róminn í fyrstunni):

Hana vantaði aldrei neitt eptir að jeg fór að sjá um hana. Aldrei hefur mér þótt eins vænt um hana, og þessa einustu yfirsjón, sem hún vissi upp á sig, eins og í þessu augnabliki, því að með henni hefur hún gefið mér rétt til að styðja og vera góður þeirri einustu manneskju, sem jeg hef dáðst mest að á allar lundir, frá því jeg var drengur.

Frú SIGRÍÐUR:

Vissuð þjer þetta, þegar þjer voruð að draga mig á sleðanum?

EINAR:

Jeg vissi það litlu eptir að sá, sem kallaður var faðir minn, var dáinn.

BRYNHILDUR,

(kemur inn um efri dyrnar til hægri og lítur á þau):

Nú, það hafa verið góð tíðindi. Jeg sé það á yður, Einar.

EINAR:

Gleðin yfir að dansa í kvöld geislar af yður, fröken. (Við frú Sigríði). Ef þjer þurfið að tala við manninn, sem jeg nefndi, er ekki annað en berja upp á kontórhurðina. Jeg get æfinlega náð í þann mann.

Frú SIGRÍÐUR:

Ef jeg þarf hans með, þá leita jeg hans.

(Einar fer fram á kontórinn).

BRYNHILDUR:

Jeg hef' allt til til kvöldsins.

Frú SIGRÍÐUR,

(hugsandi og utan við sig):

Já, þessi dagur á líka kvöld. — Jeg man ekki hvað jeg ætlaði að gjöra. — — — Það er satt, Hadda mín! jeg þarf að fara út. — — — Frú Guðríður kemur í eptirmiðdag — — — já, og þessi maður. — — — Jeg þarf endilega út snöggvast — — —

BRYNHILDUR:

En hann kemur hingað, læknisefnið.

Frú SIGRÍÐUR,

(eins og áður):

Já, hann — — — Þú tekur á móti gest-

um á meðan. — — Góða skemmtun! (Fer út um forstofudyrnar).

BRYNHILDUR,

(Tekur fjaðurkúst og byrjar að sópa ryk af húsgögnum):

Góða skemmtun! — — — Aldrei lætur hún eitt einasta orð falla um það, hvort jeg megi hugsa um hann. En hann faðir minn, hann segir það hreint út. Henni þætti vænna um mig, ef jeg ætti öðruvísi föður en jeg á.

(Hengir upp kústinn).

KRISTJÁN,

(kemur inn og heilsar):

Góðan dag, fröken Brynhildur!

BRYNHILDUR:

Góðan dag! Gjörið þér svo vel að setjast niður; móðir mín gekk út, en kemur strax. Jeg tek á móti gestum á meðan, og þér megið ekki láta yður leiðast.

KRISTJÁN:

Í návist yðar hefur mér aldrei leiðst.

BRYNHILDUR:

Og til sannindamerkis fáið þér yður stól.

KRISTJÁN:

Jeg þakka! (Þau setjast; stutt þögn).

BRYNHILDUR:

Mikið eigið þið karlmennirnir gott. Undir eins og eitthvað er varið í einhvern ykkar, þá er hann látinn læra allt, sem hann langar til..

KRISTJÁN:

Og optast meira.

BRYNHILDUR,
(brosir):

Já, það getur nú verið að það dragi úr ánægjunni. — Svo fáið þið að sigla. Ef við siglum, erum við sendar eins og koffort til einhvers manns eða konu utan lands. Við förum með hlekk um fótinn, sem hefur annan endann festan við dyrastafinn heima. En þið farið allra ykkar ferða, frjálsir eins og fuglinn..

KRISTJÁN:

Því fer nú eins og fer stundum.

BRYNHILDUR:

Siglið þér núna með póstskipinu?

KRISTJÁN:

Já. — Haldið þér, að þér saknið mín?

BRYNHILDUR:

Jeg sakna æfinlega vina minna, þegar þeir hverfa mér úr sjón. — Eruð þér að kveðja okkur nú?

KRISTJÁN:

Jeg vona, að það sé ekki.

BRYNHILDUR:

Vitið þér það ekki?

KRISTJÁN:

Það er undir yður sjálfri komið. Hefur yður aldrei komið í hug, að jeg hugsaði meira um yður, en nokkra aðra stúlku?

BRYNHILDUR:

Jú—jú—ú. En jeg hef aldrei vitað, hvort jeg átti að trúa því.

KRISTJÁN:

Ef jeg nú segði yður, að þér gætuð alveg reitt yður á það, munduð þér þá trúa því?

BRYNHILDUR:

Jeg mundi gjöra það, því að þér hafið aldrei sagt ósatt orð við mig.

KRISTJÁN:

Og trúið þér því þá líka, að það sé innilegasta óskin mín að mega kalla yður mína eigin Brynhildi?

BRYNHILDUR:

Jeg — — jeg trúi því líka, ef þér segið það.

KRISTJÁN:

Mín eigin elskaða Brynhildur, viljið þér verða konan mín? (Þau standa upp).

BRYNHILDUR,

(leggur höndina upp um hálsinn á honum):

Ó—ó, jeg var svo hrædd um, að þú mundir sigla án þess að tala við mig. — Já, já, jeg vil það.

KRISTJÁN:

Að fara án þess að tala við þig, það þorði jeg ekki fyrir nokkurn mun.

BRYNHILDUR:

Hvar var þá ofdirfskan, sem fólk segir, að þú hafir svo mikið af?

KRISTJÁN:

Fólk kallar það ofdirfsku, að mig langar

til að reyna mig, og vita hvað jeg get. Jeg er eiginlega sportsmaður.

BRYNHILDUR:

Nú máttu aldrei hætta þér framar. — Nú siglir þú líka með hlekk um fótinn, hjartans vinurinn minn.

KRISTJÁN:

Nei, það er festi af rósum. (Fótatak heyrist í forstofunni).

BRYNHILDUR:

Guð hjálpi mér — hún mamma! Þarna er albúm. (Þau setjast niður og fara að blaða í albúmi. Frú Sigríður kemur inn og tekur eptir þeim). Þetta er gömul mynd af pabba!

FRÚ SIGRÍÐUR:

Góðan dag! (Kristján og Brynhildur standa upp).

KRISTJÁN:

Góðan dag! (Þau heilsast).

BRYNHILDUR:

Þú ert alveg forkláruð í dag, mamma!

FRÚ SIGRÍÐUR:

Því segir þú þessa vitleysu?

KRISTJÁN:

Nei, dóttir yðar segir satt. Jeg hef opt séð yður og hef aldrei séð yður líta betur út.

Frú SIGRÍÐUR:

Sólin skein meðan jeg var úti. Það gladdi mig, og jeg lifði upp aptur gleðilegustu dagana af æfinni. Mikið eigið þér gott að verða utanlands að vori, og fá að sjá brosandi blómgarða breiðast út á móti suðrænni sól. Það fæ jeg aldrei framar að sjá.

KRISTJÁN:

Jeg var að óska þess, að jeg þyrfti ekki að fara.

Frú SIGRÍÐUR:

Jeg er alveg forviða!

BRYNHILDUR:

Það er satt, hvað hét maðurinn, sem ætlaði að koma hingað kl. 5 í dag?

KRISTJÁN:

Hjálmar Pálsson, stórbóndi, sveitarhöfðingi, cand. philos. og fleira.

Frú SIGRÍÐUR:

Það er nú í þriðja skiptið, sem mér er

sagt, að hann komi hér í dag. Þú sagðir mér það fyrst, Hadda!

BRYNHILDUR:

Jeg mundi ekki hvað hann hét, en þér hefur ef til vill verið sagt það, meðan þú varst úti.

Frú SIGRÍÐUR:

Nei. Úti nefndi hann enginn maður á nafn við mig. Mér flaug hann optar enn einu sinni í hug. — Það er ósköp vitlaust að ganga svona í eigin hugsunum. (Hún blaðar í nótum á píanóinu).

KRISTJÁN:

Við verðum að segja henni það strax.

BRYNHILDUR,

(við Kristján):

Faðir minn vill það, en þau hugsa aldrei eins. Hvað er hún að hugsa nú? (Kristján gefur henni bendingu að fara til móður sinnar). Mamma! — Við — — við erum — — trúlofuð!

Frú SIGRÍÐUR:

Jeg hugsaði, að það væri orðið fyrir löngu.

KRISTJÁN:

Og gefið þér þá yðar samþykki?

Frú SIGRÍÐUR:

Jeg veit ekki fyrir víst — — ekki enn.

KRISTJÁN:

Mig grunaði, að yður mundi ekki lítast svo vel á mig, að þér vilduð það.

Frú SIGRÍÐUR:

Mér lízt einmitt mjög vel á yður, en jeg þarf að tala við yður. Þú gengur út á meðan Hadda mín! (Brynhildur fer út um efri dyrnar til hægri, og lítur órólega til Kristjáns. Frú Sigríður býður honum sæti við saumaborðið. Þau setjast þar). Úr því að við eigum að verða svona vensluð, þá er nauðsynlegt, að jeg tali við yður. Ef þess þarf, segi jeg Brynhildi það allt saman sjálf.

KRISTJÁN:

Það skal vera eins og þér viljið.

Frú SIGRÍÐUR:

Mér hefur verið sagt í dag, að við hérna ættum minna en ekki neitt.

KRISTJÁN:

Jeg er ekki að biðja yður um peninga.

Frú Sigríður:

Og að hér gæti orðið umbylting á öllu. — Og þó hún ekki kæmi, þá er staða mín hér í húsinu orðin mjög erfið — jafn vel óbærileg stundum.

Kristján:

Jeg hef rennt grun í, að það kynni að vera svo.

Frú Sigríður:

Þess háttar dylst ekki. Jeg bið um hreinskilni, hverjum álítið þér, að það sé að kenna?

Kristján:

Ekki yður. —

Frú Sigríður:

Þér skiljið víst, að kona, sem hefur reynt mikið þess háttar, er hrædd við að gefa barnið sitt í annara höndur.

Kristján:

Frú Johnsen! Ímyndið yður að jeg gæti — —. Jeg elska Brynhildi.

Frú Sigríður:

Elskið hm! (Brosir raunalega). Já, þér elskið Brynhildi náttúrlega — nú!

KRISTJÁN:

En þér álítið, að það haldi ekki áfram, og vilduð því helzt, að dóttir yðar giptist aldrei.

Frú SIGRÍÐUR:

Nei, nei. — Hún er komin undir veraldarlögmálið, þetta miskunnarlausa vald, sem notar okkur og fleygir okkur frá sér á eptir. Það laðar okkur og dregur okkur með undrasjónum, og aðdáanlegri fegurð. Okkur finnst, að hjartað í brjóstinu á okkur ætli að bráðna af löngun og þrá. Ef vinir okkar aðvara okkur, þá deyjum við af sorg Að berjast á móti því er optast ósigur. — Það stoðar ekki — — stoðar ekki. (Hristir höfuðið).

KRISTJÁN,
(eptir nokkra þögn):

Trúið þér mér, frú Johnsen, jeg er ekki svo! Það liggur ekki fyrir öllum að dragast á tálar. Sumir handsama lukkuna og halda henni.

Frú SIGRÍÐUR:

Haldið þér það? (Sleppir sér). Má jeg koma með Höddu og vera hjá henni, gæta hennar, og standa við hlið henni, ef — — ef

óláníð skyldi bera að höndum? Má jeg það? Þorið þér að gefa mér leyfi til þess?

KRISTJÁN:

Yður er heimilt að vera hjá okkur, hvernig, og hve nær, sem þér viljið.

Frú SIGRÍÐUR:

Jeg skal ekki blanda mér í samfarir ykkar Brynhildar. Það væri ykkur fyrir verstu. En jeg vil vera hjá henni og sjá hana daglega. Þegar hún er farin héðan, get jeg ekki verið hér stundinni lengur.

KRISTJÁN:

Jeg veit, að þér eruð hyggin kona og viljið okkur báðum vel.

Frú SIGRÍÐUR:

Og hafið þér hugsað um, að afleiðingin af þessu yrði sú, að jeg skyldi kannske við manninn minn?

KRISTJÁN:

Það get jeg ekki sagt, að jeg hafi hugsað um. Þetta hefur allt komið yfir mig allt í einu.

Frú Sigríður,
(réttir honum hendina):

Eruð þér hræddur við mig, Kristján?

Kristján,
(tekur hönd hennar með báðum sínum):

Nei, jeg legg örlög mín og Brynhildar í yðar sterku og hyggnu hendur.

Frú Sigríður:

Það er satt, jeg á eptir að segja yður af Einari Jónssyni og okkur hér.

Kristján:

Já, ef yður þóknast svo!

Frú Sigríður:

Hann er sjö árum eldri en jeg, og þegar jeg var barn, kom móðir hans með hann til okkar og gaf mér drenginn í tannfé.

Kristján:

Hún hefur skoðað yður sem lukkunnar barn.

Frú Sigríður:

Hann stækkaði, og varði mig fyrir öllum óþægindum. Faðir minn lét mig borga skólagöngu hans, — hann borgaði hana náttúrlega frá sjálfum sér — og ýmislegt þess hátt-

ar. Þegar jeg var orðin fullorðin, útvegaði jeg sjálf honum stöðu hér í búðinni, og hamingjunni sé lof, að hann er víst lukkulegri en jeg. — En við erum mikið skyld, þótt fáa gruni það.

KRISTJÁN:

Hvernig vitið þér það?

Frú SIGRÍÐUR:

Sá sagði mér, sem bezt hlaut að vita það.

KRISTJÁN:

Það er ótrúlegt, þið eruð svo ólík.

Frú SIGRÍÐUR:

Við erum ekki sammæðra. Hann er bezta gjöfin, sem mér hefur verið gefin. (Lýkur upp efri dyrunum til hægri). Brynhildur!

(Brynhildur kemur inn nokkuð hikandi).

Frú SIGRÍÐUR:

Jeg óska ykkur til lukku fyrir mitt leyti. (Brynhildur kastar sér í fangið á henni). Og svo getið þið talað saman, látið þið mig ekki trufla ykkur. (Hún sezt við saumaborðið og tekur handvinnu, en þau setjast við borðið í stofunni. — Stutt þögn). Því segið þið ekki neitt?

BRYNHILDUR:

Jeg er svo lukkuleg, mamma!

Frú SIGRÍÐUR,
(lítur á úrið sitt):

Geturðu ekki sýnt honum albúm, Hadda?

KRISTJÁN:

Jeg þekki allar myndirnar.

Frú SIGRÍÐUR:

Fyrirgefið þér! Áðan þegar jeg kom inn, þá þekktuð þér ekki gamla mynd af Johnsen.
(Þau líta hvort til annars).

BRYNHILDUR:

Þú mín allt sjáandi móðir!
(Einar kemur inn af kontórnum og heilsar, þau á móti).

EINAR:

Johnsen er farinn burtu, svo jeg verð að biðja yður að ljá mér minie-riffilinn hans á morgun.

Frú SIGRÍÐUR:

Með ánægju. — Hvað ætlið þér að gjöra við hann?

EINAR:

Jeg ætla að reyna nýju skektuna mína; þeir segja, að það séu gallar á henni þegar hún kemur undir segl. — Allt lýgi náttúrlega. Riffilinn þarf jeg, ef jeg skyldi sjá sel.

KRISTJÁN:

Þessir aumingja selir eru allra mestu meinleysis garmar, þeir reyna ekki einu sinni til að hvolfa bátnum undir þeim, sem er að drepa þá.

EINAR:

Þeir bíta, greyin!

KRISTJÁN:

Menn ættu ekki að veiða önnur dýr en þau, sem lífshætta er að eiga við.

EINAR,

(tekur bréf upp úr vasanum):

Sport fyrir yður hér! — Íslendingur vestur í Rocky mountains býður mér, eða öðrum manni til að vera hjá sér til að skjóta birni.

KRISTJÁN:

Það væri annað, en seladráp.

EINAR:

Mig hefur dreymt um svoleiðis frelsi í 20 ár. Dreymt — en heldur ekki meira.

BRYNHILDUR:

Pabbi er góð skytta, Einar.

EINAR:

Var fyrirtak, fröken! (Fer).

Frú SIGRÍÐUR:

Heyrið þið! — Jeg vil ekki láta Höddu sigla undir fölsku flaggi hér í bænum. — Jeg vil, að trúlofun ykkar verði gjörð uppská áður en þér farið.

KRISTJÁN:

Þér skuluð ráða.

BRYNHILDUR:

Pabbi er með því.

Frú SIGRÍÐUR:

En hann verður ekki kominn heim áður en unnustinn þinn siglir. Jeg ætla því að biðja tvær kunningjakonur mínar að koma hér, og segja þeim það í trúnaði. Í kvöld verður það komið um allan bæinn. Jeg þekki frú Thorkelín.

BRYNHILDUR:

Verður frú Thorkelín við? Svei þeirri kerlingu!

Frú SIGRÍÐUR:

Hún er svoddan gull fyrir póstgöngurnar hérna í bænum. Hann kemur ekki — maðurinn. Syngdu fyrir okkur, Hadda mín!

BRYNHILDUR,

(gengur upp að hljóðfærinu):

Hvað á það að vera?

(Menn heyra, að ytri hurðin er opnuð, og að gengið er um forstofuna. Brynhildur gengur að dyrunum, Kristján í áttina á eptir henni).

Frú SIGRÍÐUR,

(stendur upp í geðshræringu og talar fram):

Það er orðið þungt fótatakið hans, hver veit líka nema það sé þungur gangur fyrir hann að koma hingað nú? (Það er barið upp á, hún tekur fyrst hendinni til hjartans, og svo báðum höndunum um höfuðið og styður sig síðan við stólbak).

KRISTJÁN,

(tekur eptir henni, kemur fljótt til hennar og segir ósjálfrátt):

Lypothymie!

BRYNHILDUR,

(við dyrnar):

Kom inn!

Frú Sigríður:

Það er ekkert, það er ekkert.

(Hjálmar Pálsson, vel búinn maður, um fertugt, kemur inn).

Hjálmar:

Góðan dag!

Brynhildur:

Góðan dag! (Kristján fer til hans, þeir heilsast).

Frú Sigríður,

(talar fram til áhorfendanna):

Við erum hætt að vera ung. (Snýr á móti gestinum).

Hjálmar:

Góðan dag, frú Sigríður Johnsen!

Frú Sigríður:

Velkomnir! Brynhildur dóttir mín — herra Hjálmar Pálsson. Kandídat Kristján —

Kristján:

Við þekkjumst!

Frú Sigríður:

Jeg vissi það ekki. — Það var vel gjört að koma. —

HJÁLMAR:

Jú, við sjálfan mig. — Það er langt síðan jeg sá yður.

Frú SIGRÍÐUR:

Svo mörg ár líða ekki æfinlega fljótt. — Hvernig hefur yður liðið? —

HJÁLMAR:

Upp og niður — vel! — Jeg hef búið búi mínu, grætt á tá og fingri, segja þeir sveitungar mínir. Siglt tvisvar og verið utan einn veturinn í hvort skiptið.

Frú SIGRÍÐUR:

Og skemmt yður vel?

HJÁLMAR:

Það hef jeg aldrei kunnað; jeg hef æfinlega verið of gamall til þess.

Frú SIGRÍÐUR:

Hamingjunni sé lof! — Fylgt með í pólitíkinni?

HJÁLMAR:

Já, jeg er orðinn hreppapólitíkus.

Frú SIGRÍÐUR:

Ja, guð hjálpi mér, það eruð þið flestir!

KRISTJÁN:

Þér gleymið laginu, fröken! (Lægra við Brynhildi). Móðir yðar þarf eitthvað, sem kemur henni í jafnvægi aptur; henni ætlaði að verða illt áðan.

Frú SIGRÍÐUR:

Já, Hadda, músik er olía á úfinn sjó.

BRYNHILDUR,

(sezt við fortepíanóið. Til Hjálmars):

Hvernig ætti það að vera?

HJÁLMAR:

Helzt eitthvað sorglegt — eitthvað þungt.

BRYNHILDUR:

Það væri þá: Söngur Þórðar Andréssonar. (Hún leikur á hljóðfærið og syngur):

1.

Gissur ríður góðum fáki, gleðst af svikareið,
fyrir hann og föruneyti fá er gatan breið.
— Brotnar eru borgirnar. —
Jeg má bundinn hanga á hesti, hvort — jeg veit ei enn. —
Minn til Heljar horfir vegur. Hlýðið góðir menn!
— Mínar eru sorgirnar þungar sem blý! —

2.

Dansa þú nú Vikivaka, veslings Bleikur minn!
Hrek jeg þig í hinnsta sinni hetju fákurinn.
— Brotnar eru borgirnar. —
Þegar sólu sér á morgun, svo er létt á þér,
en við söðulhnapp þinn hangir höfuð bleikt
af mér.
— Mínar eru sorgirnar þungar sem blý! —

3.

Öxi sé jeg uppi blika og allt í loga glóð,
Þjórsá undan Þrándarholti þykir mér sem blóð.
— Brotnar eru borgirnar, böl er að því. —
Útlent vald oss yfir dynur, -- Ísland hefur jarl! --
Það var mæða að meinleysinu, að myrða ei
þann karl!
— Mínar eru sorgirnar þungar sem blý! —

HJÁLMAR:

Jeg þakka, fröken! Efnið er tekið úr Sturlungu og Þórði Andréssyni gjörð upp orðin, þegar hann lét hestinn sinn dansa með sig, kvöldinu áður en Gissur jarl lét drepa hann.

KRISTJÁN:

Þér komið á dansinn í kvöld?

HJÁLMAR:

Jeg verð að hætta á það, fyrst jeg hef svo hugrakkan leiðtoga.

Frú Sigríður:

Hugrakkan?

Hjálmar:

Hann var svo fífldjarfur við árnar á leiðinni, að mér var nóg boðið, og kann þó ekki sund.

Brynhildur:

Jeg hef einhvern tíma heyrt talað um það. (Brosandi við Hjálmar). Ætlið þér að dansa fyrsta dans við mig?

Hjálmar:

En faðir yðar, eða einhver yngri? (Lítur til Kristjáns).

Brynhildur:

Faðir minn er ekki í bænum. Fæ jeg dansinn?

Hjálmar:

Þó þér vilduð tvo.

Frú Sigríður:

Hadda mín, þú verður að finna frúrnar fyrir mig.

BRYNHILDUR:

Já, það er satt! Við sjáumst aptur.
(Kveður og fer út um dyrnar til hægri).

KRISTJÁN:

Og jeg hef svo margt að hugsa fyrir kvöldið. Fyrirgefið þér! (Fer út um dyrnar útí anddyrið).

Frú SIGRÍÐUR:

Setjizt þér hérna hjá mér dálitla stund. (Þau setjast við saumaborðið). Þér hafið eiginlega valið yður betri stöðu, en nokkur hinna, sem voru á líkum aldri og þér.

HJÁLMAR:

Allir gömlu lagsbræðurnir mínir, eru víðsvegar í landsins þjónustu, og allir meira eða minna háðir.

Frú SIGRÍÐUR:

Og ganga optast með sverð hangandi yfir höfði sér, og þetta hangandi sverð þyngist stundum með árunum.

HJÁLMAR:

Staða mannsins yðar?

Frú Sigríður:

Jeg tala ekki um mig.

Hjálmar:

Jeg hef æfinlega viljað vera óháður.

Frú Sigríður:

Hm. — Jeg hef aldrei vitað, hvers vegna þér hættuð við allan lærdóm.

Hjálmar:

Móðir mín var orðin gömul, hún gat ekki séð um það, sem hún átti, og jeg vildi ekki vera henni til byrði.

Frú Sigríður:

O—o, kona, sem er móðir, hjálpar barninu sínu meðan hún getur, og meðan það þarf. — Þér þurfið ekki að segja mér neitt um það, hvað ein móðir tekur upp á sig.

Hjálmar:

Nú, já. En sum börn nota ekki góðvild foreldra sinna út í yztu æsar. (Brosir). Þér þurfið ekki að segja mér neitt af því.

Frú Sigríður:

Jeg skal undir eins trúa yður til þess.

HJÁLMAR:

Móðir mín var orðin svo veik, að hún mátti aldrei vera ein.

Frú SIGRÍÐUR:

Þér hefðuð getað fengið einhverja góða stúlku til að passa hana. Hún hefði gjört það betur, en þér sjálfur.

HJÁLMAR:

Það er ekki ómögulegt. En stúlkan, sem það hefði átt að gjöra, hefði undir eins verið eignuð mér, og það hefði komið mér illa.

Frú SIGRÍÐUR:

Nú? En því ekki það, því mátti ekki eigna yður hana?

HJÁLMAR:

Nei. Því svo var ung stúlka (lítur niður), sem jeg hugsaði mikið um.

Frú SIGRÍÐUR,

(brosir):

Það hefur ekki orðið meira, en umhugsunin, því ef jeg veit rétt, þá eruð þér ógiptur enn.

HJÁLMAR:

Nei, það varð aldrei neitt. — Hún giptist öðrum.

Frú SIGRÍÐUR,
(eins og hún sé hrædd við svarið):

Var það ekki fjarska illa gjört af henni?

HJÁLMAR:

Nei. — Mér hafði hún engu lofað.

Frú SIGRÍÐUR:

Það er fallegt af yður að dæma svo vægt! — Þér hafið náttúrlega talað við hana um það?

HJÁLMAR:

Nei, jeg sagði henni aldrei frá því með einu orði. En hún vissi víst samt hvað jeg hugsaði.

Frú SIGRÍÐUR:

Þér hafið kannske ætlazt til, að tvær eða þrjár Kotiljonsslaufur væru nægileg upplýsing fyrir hana.

HJÁLMAR:

Nei, aldeilis ekki.

Frú Sigríður:

Til hvers var fyrir hana að vita það, sem þér aldrei töluðuð um, nema til þess, að hún gjörði sér vonir, sem þér svo sáuð um, að aldrei gætu rætzt. Þið karlmenn ættuð ekki að hafa einkarétt til að tala að fyrra bragði um ástir, því að það er ekki æfinlega, að þið þorið það.

Hjálmar:

Þér lítið ekki á það, hvernig ástatt var fyrir mér. — Hún hefur víst aldrei gjört sér neinar vonir. Hvernig átti jeg að búast við því, að einhver langhelzta höfuðstaðardaman færi með mér langt, langt í burtu til að verða þar bóndakona alla æfi? Það hefði verið allt of hátt stjörnuhrap! — Hvað ímyndið þér yður, að svoleiðis stúlka hefði gjört?

Frú Sigríður,
(brosandi):

Það get jeg ekki ímyndað mér neitt um.

Hjálmar:

Hvað hefðuð þér sjálfar gjört?

Frú Sigríður,
(brosandi):

Erum við að tala um mig?

HJÁLMAR:

O—o, jeg veit ekki. — Hvað haldið þér, að þér hefðuð sjálfar gjört?

Frú SIGRÍÐUR:

Jeg hefði farið með yður, — ef mér hefði þótt nógu vænt um yður til þess.

HJÁLMAR:

En svo vænt um mig hefði yður aldrei getað þótt.

Frú SIGRÍÐUR:

Það er ekki gott að segja. — Ef stúlkan yðar hefði nú ekki viljað fara langt burtu úr bænum um aldur og æfi, þá hefðuð þér getað boðið henni annað fyrirkomulag, sem henni hefði kannske líkað betur.

HJÁLMAR:

Til dæmis að halda áfram með lærdóminn, eða að sigla og læra eitthvað praktiskt, til dæmis verzlun?

Frú SIGRÍÐUR:

Já, ef hún hefði endilega viljað það heldur.

HJÁLMAR:

Þér gleymið, að jeg átti veika móður!

Frú SIGRÍÐUR:

Nei, jeg gleymi því ekki, að þér áttuð veika móður. Það stóð engri lifandi manneskju nær en stúlkunni yðar að passa hana á meðan.

HJÁLMAR:

Hún hefði verið lýtt fyrir það að dragast með þessa gömlu konu.

Frú SIGRÍÐUR:

Lýtt? — Nú og það gat hún ekki afborið. Svo stúlkan yðar var þá eiginlega ekki annað en óbrotin broddlóa. — Jeg er viss um, að þér sjáið það þó nú, að fyrir hverja góða stúlku, sem þótti vænt um yður, hlaut að vera innileg gleði því samfara, að ganga móður yðar í dóttur stað, meðan hún beið eptir yður.

HJÁLMAR:

En jeg hélt þá, að stúlkan mín, sem þér kallið svo, væri ekki fær um það.

Frú SIGRÍÐUR:

Það er ekki gott að gizka á það, hvað einn kvennmaður getur verið fær um. Þér hafið víst aldrei hugsað það mál út í æsar,

(styður höndinni undir kinnina), og kannske það hafi ekki verið þess vert.

HJÁLMAR:

Hún hefði orðið að athlægi.

Frú SIGRÍÐUR:

Gat hún ekki brosað aptur á móti?

HJÁLMAR:

Já — þér hafið æfinlega verið hetja!

Frú SIGRÍÐUR:

Jeg þakka fyrir komplímentin! þó þér hafið sagt mér það gagnstæða í hverju orði núna síðustu mínúturnar, því við höfum ekki talað um annað en y ð u r og m i g.

HJÁLMAR:

Nei. — Við höfum ekki talað um annað!

Frú SIGRÍÐUR:

Nú skil jeg það allt saman. — Þér treystuð mér ekki til að gefa mig út fyrir aðra. — Jeg á bágt með að fyrirgefa yður það vantraust.

HJÁLMAR:

Sumar herðar eru svo fínt byggðar, að þær þola ekki þunga byrði. En sumar herðar

elskar maður kannske svo innilega, að manni getur ekki komið til hugar að leggja nokkra byrði á þær.

Frú SIGRÍÐUR:

Hugir okkar og tilfinningar hafa æfinlega viljað streyma saman.

HJÁLMAR:

Og frá minni hlið stórlega.

(Brynhildur kemur inn um forstofuna. Þau standa upp).

BRYNHILDUR,

(brosandi):

Mamma, nú koma gæsirnar!

Frú SIGRÍÐUR:

Frú Guðríður er engin gæs!

HJÁLMAR:

Jeg hef gleymt því, að tíminn líður.

BRYNHILDUR:

Jeg set upp hanzkana klukkan hálf átta!

HJÁLMAR:

Og jeg set mína upp fimm mínútum áður. (Kveður Brynhildi. Um leið og hann tekur í hendina á frú Sigríði). Jeg verð víst að gjöra mig ánægðan með annan dans hjá yður í kvöld?

Frú Sigríður:

Já. Þér báðuð mig aldrei um fyrsta dans.
(Hjálmar fer; mæðgurnar fylgja honum til dyra).

Brynhildur:

Mér lízt svo ljómandi vel á þennan mann!

Frú Sigríður,
(frammi við saumaborðið, við sjálfa sig):

Það gengur í erfðir!
(Kristján kemur inn af kontórnum og hneigir sig).

Kristján:

Jeg kom í gegnum kontórinn, því jeg ætlaði að taka Einar með mér, en hann var þar ekki.

Brynhildur:

Kerlingarnar eru að koma!

Kristján:

Það eru vinkonur móður yðar, fröken!

Frú Sigríður:

Já, frú Guðríður er vinkona mín á bak og brjóst. — Frú Thorkelín ekki einu sinni á brjóstið. (Frú Guðríður og frú Thorkelín koma inn um forstofudyrnar, kyssa mæðgurnar, frú Guðríður heilsar Kristjáni með handabandi. Frú

Thorkelín hneigir sig ofurlítið í áttina til hans. Hann svarar kveðjunum).

Frú Sigríður:

Verið þið velkomnar!

Frú Guðríður:

Jeg þakka!

Frú Thorkelín:

Merci!

Frú Sigríður:

Gjörið þið svo vel og setjast á sofann. (Þær setjast). Hvað má jeg bjóða ykkur?

Frú Thorkelín:

Mér bara vín!

Brynhildur:

Jeg sé aldrei manninn yðar úti, frú Guðríður.

Frú Guðríður:

Hann situr allt af yfir bókunum sínum.

Frú Thorkelín:

Það er furða, að maðurinn skuli vilja leggja það á sig, hann kemst ekki hærra en hann er kominn, hvort sem er.

Frú Guðríður:

Það er nú ánægjan hans.

(Frú Sigríður talar lágt við Kristján, hann fer út um forstofuna).

Frú Thorkelín:

Hvað er þessi ungi sveitamaður að gjöra hér?

Frú Sigríður:

Hann er svo gott sem að kveðja okkur, hann siglir núna með póstskipinu.

Frú Guðríður:

Það er satt, hann er búinn að stúdera. Maðurinn minn segir, að hann sé mjög efnilegur maður.

Frú Thorkelín:

Flest ætlar nú að sigla! (Frú Guðríður hnippir í hana). Efnilegur maður! — Mikið efnilegur!

Frú Sigríður:

Fyrirgefið þið, við mæðgurnar þurfum snöggvast fram til að sjá um beina.

(Frú Sigríður og Brynhildur út um efri dyr til hægri).

Frú Thorkelín:

Nú, Guðríður, því hnipptir þú í mig?

Frú Guðríður:

Ungi maðurinn, sem var hérna, verður líklegast maðurinn hennar Brynhildar.

Frú Thorkelín:

Nú, jeg hrósaði honum beinlínis!

Frú Guðríður:

Já, eptir að jeg var búin að hnippa í þig.

Frú Thorkelín:

Hún Sigríður bíður vín í dag. Hvaða óttaleg lukka er hérna í húsinu. Skal hann Johnsen vera dauður?

Frú Guðríður:

Uss, því segirðu þetta? — En það er satt, hún býður aldrei vín.

Frú Thorkelín:

Af góðum og gildum orsökum! Allir vita, að hann Johnsen drekkur, en það vita ekki allir af hverju það er. — Heimilið — heimilið, það gjörir æfinlega nokkuð, góðasta! Jeg gæti látið manninn minn drekka eins og svín; jeg þyrfti ekki annað en að gleyma, að láta leggja í ofninn hjá honum, þegar hann ætlaði að vera heima.

Frú Guðríður:

Hann er nú ekki alveg laus við það, þó þú leggir í.

(Frú Sigríður og Brynhildur koma inn með vín og kökur).

Frú Sigríður,
(byrjar að skenkja í glösin):

Eigum við ekki að sýna, að við getum byrjað án karlmannanna?

(Kristján og Einar koma inn úr forstofunni).

Frú Thorkelín:

Látið þér þá nú taka við, hitt er svo emanciperað.

Brynhildur:

Hvað er að því, þó við værum líkar karlmönnunum í því að hjálpa okkur sjálfar með ýmislegt?

Einar:

Bravó, vel talað, fröken!

(Frú Thorkelín horfir á Einar gegnum lorgnettið).

Frú Sigríður:

Við gleymum alveg glösunum!

Frú Thorkelín:

Eruð þér ekki fæddur og uppalinn upp í sveit, herra kandídat?

Kristján:

Jú, frú Thorkelín! — Því spyrjið þér að því?

Frú Thorkelín:

Mér þykir svo góð mjólkin! Ef jeg ætti kýr, þá skyldi jeg mjólka þær sjálf. Maður gjörir svona og svona. (Sýnir það klaufalega).

Kristján:

Jeg hef aldrei mjólkað. (Brosir). En jeg er alveg viss um, að ef frúin reyndi að vera mjaltakona, þá passaði hún ágætlega til þess.

Frú Thorkelín:

Ó, kompliment — kompliment!

Frú Sigríður:

Viljið þið ekki taka glös? (Þau gjöra það öll). Jeg ætla að segja ykkur heilmikið leyndarmál, ef þið viljið lofa mér því að segja það ekki fyr, en jeg gef ykkur leyfi til þess.

Frú Thorkelín, frú Guðríður og Einar:

Við lofum því.

Frú Sigríður:

Jeg heyrði ekki hvort þér sögðuð nokkuð, frú Thorkelín?

Frú Thorkelín:

Jeg lofa þagmælsku við allt, sem heilagt er.

Frú Sigríður:

Brynhildur dóttir mín og kandídatinn eru trúlofuð.

Frú Thorkelín:

Ah!

Frú Guðríður,

(stendur upp og kyssir Brynhildi innilega):

Jeg óska til lukku, mér hefur lengi sýnzt, að eitthvað væri í vændum með ykkur.

Einar,

(hristir hendina á Kristjáni):

Þér eruð, svei mér þá, hyggnasti ógipti maðurinn í bænum! (Almennar lukkuóskir með glösunum).

Frú Thorkelín:

Mér sýnist, að hann faktor Johnsen ætti að vera viðstaddur við svona hátíðlegt tækifæri á heimilinu.

Frú Sigríður:

Góða frú Thorkelín, Johnsen kemur ekki heim, fyr en kandídat Kristján er sigldur. Jeg er ekki að opinbera trúlofun, heldur er jeg að segja ykkur trúnaðarmál. Hann þarf ekki að vera við til þess.

Frú Thorkelín:

Hvenær verður trúlofunin þá opinberuð?

Frú Sigríður:

Kannske ekki fyr en að vori.

Frú Guðríður,

(brosandi):

Og eigum við að þegja allan þann tíma?

Frú Thorkelín:

Jeg missi ekki heilsuna þó jeg þegi. Að þegja er list, sem jeg kann.

(Kristján talar lágt við frú Sigríði litla stund).

Frú Sigríður:

Viljið þið afsaka kandídatinn okkar, hann þarf að fara?

Einar:

Þá fer jeg líka bráðum! (Lágt). Þetta

kerlingaþvaður! (Kristján kveður og fer, Brynhildur fylgir honum út í forstofuna, en kemur bráðum inn aptur).

Frú Thorkelín,
(lágt við frú Guðríði):

Tókstu eptir, Guðríður? „Kandídatinn okkar“!

Frú Guðríður:

Var það nokkuð að hneykslast á?

Frú Thorkelín:

Margur hefur nú kunnað að halda á klípitöng, og aðrir ekki verið svona montnir af þeim fyrir því. (Hátt). Stelpan í Móakoti og strákurinn í Rófubænum hva' vera trúlofuð.

Frú Sigríður:

Þér verðið að afsaka þó sú trúlofun liggi mér léttara á hjarta en það, sem hér hefur skeð.

Frú Thorkelín:

Það er bara svona bæjarslaður. Maður talar æfinlega um þá, sem eru fjarverandi, en aldrei um þá, sem við eru, góðasta!

Frú Sigríður:

Já, ef maður talar æfinlega um fólk, en

aldrei um málefni. (Johnsen kemur inn um kontórdyrnar. Hann er sýnilega drukkinn; með hattinn á höfðinu, svipu, sem hangir um úlfliðinn, á veiðifötum, með tvíhleypu um öxl. Einar verður fyrst fyrir honum, hann tekur í Einar og heldur í hann meðan hann talar við hann. Frú Sigríður og Brynhildur verða órólegar þegar þær sjá hann).

EINAR:

Kominn heim aptur? — Hvað er að?

JOHNSEN:

Bölfaður koffortahesturinn fældist, og braut allar flöskurnar. Jeg þarf 12 flöskur aðrar, náðu þeim, þær verða að vera vel fullar. Hahaha!

EINAR:

Undir eins, undir eins! (Hikandi). Nei, Johnsen, viltu? —

JOHNSEN:

Og meira púður, — púðrið vöknaði af whiskýinu.

EINAR:

Nei, heyrðu Johnsen, viltu ekki heldur sofa fyrst?

JOHNSEN:

Sofa? Jeg að sofa? (Fer að reiðast). Jeg sofa fyrst?

Frú SIGRÍÐUR:

Gott kvöld! Það eru gestir hjá mér.

JOHNSEN:

Það ragar mig ekki neitt.

BRYNHILDUR:

Gott kvöld, faðir minn!

JOHNSEN:

Farðu upp á herbergið þitt, Brynhildur! Jeg vil ekki sjá þig! — Nú út með þig!

(Brynhildur gengur niðurlút út til vinstri).

Frú SIGRÍÐUR:

Því ertu harður við hana Höddu, hún styggði þig ekkert?

JOHNSEN:

Hafi hún ekki gjört það, þá hefur hún sjálfsagt ætlað að gjöra það. (Gengur upp að borðinu, sem frúrnar sitja við, og slengir hattinum sínum á það. Þær standa upp).

Frú GUÐRÍÐUR:

Gott kvöld, herra faktor!

Frú THORKELÍN:

Bon soir, monsieur!

JOHNSEN:

Hvað á þessi franska? Sigríður! hvern fjandann eruð þið að gjöra hér?

Frú SIGRÍÐUR:

Þú sérð það víst!

JOHNSEN,

(enn reiðari en fyr):

Og þú ert að fara með vín án míns leyfis? (*Frú Sigríður* horfir agndofa á hann).

Frú THORKELÍN:

Hún var að opinbera trúlofun Brynhildar — og — og —

Frú SIGRÍÐUR:

Jeg þakka fyrir þagmælskuna, frú Thorkelín!

JOHNSEN,

(sem verður allt af reiðari og reiðari, tekur í báðar axlirnar á *frú Sigríði* og þrýstir henni niður á stól):

Jeg skal kenna þér að opinbera trúlofanir, Sigríður. Hadda skal ekki vera trúlofuð! Veiztu nú það? (*Frú Thorkelín* fer

út um dyrnar, án þess að nokkuð heyrist til hennar. Frú Guðríður gengur fram til Einars).

Frú Guðríður:

Í guðs bænum gangið þér á milli! Lofið þér mér því?

Einar:

Já, það veit guð! Hann skal ekki snerta eitt hár á höfði hennar, meira en komið er. — Verður að gjöra út af við mig fyrst. (Fer til Johnsens og tekur fast í hann). Johnsen! Ef þú vilt illindi, þá er jeg, eins og guð á mig, hér! — Geng af þér dauðum! (Johnsen sleppir frú Sigríði, sem stendur upp. Frú Guðríður fer. — Johnsen horfir á þau á víxl).

Frú Sigríður,
(með geðshræringu og sorg):

Upp frá þessari stundu hætti jeg algjörlega að skoða okkur sem hjón.

(Tjaldið fellur).

# II. þáttur.

[Stofa fyrir framan danssal á hótelli í Reykjavík. vængjahurðir í framsýn, þegar þær eru opnar, sést inn í upplýstan danssal. Stofan, sem er fremur lítil, er með dyrum til hægri handar. Dagsljósið er byrgt úti; hún er tjölduð með norðurlandaflöggunum til skrauts, meðal þeirra kemur íslenzka fálkaflaggið opt fyrir. Skjaldarmerki eru hengd á veggina uppi undir loptinu og á þau eru dregnir hinir fjórir landvættir, (risi með járnstaf, manneygur griðungur, dreki og örn, hver á sinn skjöld), krossinn, riddari með alvæpni, einhyrningur, hvítabjörn o. s. frv. (Flatti þorskurinn sézt hvergi).

Dansinn gengur fullum fetum, í dansinum sjást frú Sigríður, Hjálmar, Brynhildur og Kristján, Thorkelín og frú Thorkelín, frú Guðríður og fleiri. Dömurnar, sem dansa, eru á faldbúningi, húfufötum, eða útlendum búningi, karlmennirnir á kjól, eða diplomatfrakka. Það er verið að enda túr í „Les Lanciers", þegar tjaldið er dregið upp. Kvadrillurnar riðlast og dansinn hættir.

Forstöðumaðurinn fyrir dansinum tekur Sigurð Þorsteinsson fram á leiksviðið].

FORSTÖÐUMAÐURINN:

Sigurður Þorsteinsson! Þú dansar ekki, þú verður að mæla fyrir minni kvenna.

SIGURÐUR:

Jeg, forstöðumaður? — Jeg, sem hef aldrei verið við kvennmann kenndur!

FORSTÖÐUMAÐURINN:

Jeg hef reynzluna fyrir því, að þeir, sem minnst þekkja kvennfólkið, halda æfinlega beztu ræðurnar fyrir því.

SIGURÐUR:

Nú, þeir, sem þekkja til, verða líklega ekki eins hrifnir. — Nei, jeg get ekki talað.

FORSTÖÐUMAÐURINN:

Engin mótmæli! — Sic volo, sic jubeo. —

SIGURÐUR:

Fer ekkert af allri þessari latínu á ringulreið, þegar herrann dansar?

FORSTÖÐUMAÐURINN:

Nei, ekki hið minnsta. (Þeir ætla inn í danssalinn, en við dyrnar er forstöðumaðurinn um kringdur af fólkinu, sem dansar).

NOKKRAR UNGAR DÖMUR:

Verður ekki farið að byrja næsta dans?

FORSTÖÐUMAÐURINN:

Jú, undir eins, jeg þarf aðeins að tala við þann, sem á að færa hann upp.

NOKKRIR UNGIR MENN:

Er það satt, að við eigum að hætta að dansa kl. 12.

FORSTÖÐUMAÐURINN:

Eptir lögunum má ekki dansa lengur á laugardagskvöldi.

EINN HERRA:

Getur maður ekki látið þau lög sofa í kvöld?

SIGURÐUR:

Má ekki gefa þeim inn ópíum?

FORSTÖÐUMAÐURINN:

Hjálpar ekkert, — þessi lög ganga nú orðið allt af með vökustaur.

(Forstöðumaðurinn gengur inn í danssalinn, báðar vængjahurðirnar eru opnar, svo dansinn sézt og músikkin heyrist. Það er klappað upp, músikkin leikur hergöngu. Þeir, sem dansa, byrja að ganga í

röðum. Frú Sigríður tekur Brynhildi fram á leiksviðið).

Frú SIGRÍÐUR:

Hvað hefur þú verið að hugsa í kvöld?

BRYNHILDUR:

Jeg hef ekkert hugsað, jeg hef liðið gegnum alstirndan himin, og gullroðin ský — og dansað.

Frú SIGRÍÐUR:

Þið Kristján hafið dansað saman næstum því tvo klukkutíma!

BRYNHILDUR:

Ja, jeg gætti ekki að því, fyrst var klukkan 8, en eptir svo sem 10 mínútur var hún orðin hálf gengin tíu.

Frú SIGRÍÐUR:

Þið verðið að gæta ykkar betur framvegis.

BRYNHILDUR:

Fyrirgefðu, móðir mín, þú veizt, að það verður langt þangað til við dönsum saman aptur. (Þær ganga inn í danssalinn, báðum vængjahurðunum er lokað, músikkin heyrist þá ekki. Johnsen, klæddur eins og áður, og Kristján koma inn um dyrnar til hægri handar).

JOHNSEN:

Jeg drekk út úr ergelsi, má ekki bjóða yður eitt glas af einhverju?

KRISTJÁN:

Nei, jeg þakka. Jeg fer að dansa næsta dans.

JOHNSEN,
(heldur í hann):

Við hverja dansið þér næsta dans?

KRISTJÁN:

Við fröken — dóttur yðar.

JOHNSEN:

Ja, hvaða fjandans gagn er að því úr þessu?

KRISTJÁN:

Gagn?

JOHNSEN:

Já, jeg held að fjandinn sjálfur sje farinn í kerlinguna!

KRISTJÁN:

Hvaða kerlingu?

JOHNSEN:

Konuna mína. En að þér skulið láta þetta viðgangast! — Þið ungu mennirnir hafið misst alla dáð, og jafn vel þér líka, þótt þér séuð hugaður, fimur og sterkur.

KRISTJÁN:

Það hefur aldrei verið meiri dáð í mér, en einmitt nú.

JOHNSEN:

En sá misskilningur! — Gamla kynslóðin fer öll til fjandans fyrir drykkjuskap, við Thorkelín báðir með. Að hafa drukkið alla sína æfi, og fara það svo á eptir, það get jeg skilið. — En að gjöra aldrei nokkurn skapaðan hlut, eins og þið ungu mennirnir, hafa ekki ánægju af neinu, láta sér ekki bregða, þótt einhver dáðleysingi taki stúlkuna ykkar frá ykkur, og fara geispandi af leiðindum til fjandans á eptir, og vita ekki fyrir hvað maður er kominn þangað, það vildi jeg ekki gjöra.

KRISTJÁN:

En segið þér mér, herra Johnsen, hvað eigið þér eiginlega við?

JOHNSEN:

Jeg má aldrei vera eitt augnablik burtu

af heimilinu, þá skeður eitthvað illt. Meðan jeg bregð mér upp fyrir ár í dag, trúlofar konan mín Brynhildi einhverjum steinbít, þumbara eða marhnút, sem jeg veit ekki einu sinni nafnið á.

KRISTJÁN,

(brosandi):

Brynhildur er trúlofuð mér!

JOHNSEN:

En hvað jeg skyldi ekki spyrja hana að því, hver það væri. Það var leiðinlegt. — En sú gleði fyrir mig! (Tekur í hendina á honum og slær á öxlina á honum). Guð veri með yður drengurinn minn! Mér er sagt, að mín lukka í heiminum sé á förum. En haldið þér Höddu upp úr, guð blessi yður! Látið þér hana ekki bíða lengi eptir yður.

(Einar kemur inn um dyrnar til hægri, Kristján hneigir sig þegjandi og fer inn í danssalinn).

EINAR:

Þú hér, Johnsen! — Það er gott, jeg þarf að tala við þig.

JOHNSEN:

Já, þú ert orðinn svo óðamála, Einar, það eru vandræði með þig.

EINAR:

Þarf að tala við þig, eins og þú veizt, um starfið, sem við báðir lifum á.

JOHNSEN:

. Öll alvarleg störf verða að bíða morguns. Nú er jeg á balli!

EINAR:

Það dugir ekki, Johnsen! — Verzlunin — búðin, lífið, heimta að allt sé gjört undir eins í dag.

JOHNSEN:

Hver græðir á verzlun á þessum árum? — Slúður! — Verzlunareigandinn okkar hlýtur að vera orðinn vitlaus.

EINAR:

Vitlaus, hm! — Forstaða þessarar verzlunar hér á landi, er ekki söm og áður.

JOHNSEN:

Já, þá ætti hann að koma og passa verzlunina sína sjálfur!

EINAR:

Hótar — svo gott sem — að gjöra það.

JOHNSEN,
(gramur):

Er jeg ekki sami maðurinn, sem jeg var?

EINAR:

Nei, það er ólánið! — Vantar allt eptirlit! — Viðskiptamenn fá ekki að tala við faktorinn! — Verzlunarhúsið er allt annað, en fyrir nokkrum árum.

JOHNSEN:

Jeg skal sýna þeim, að það skal verða það sama, sem það var áður, á einu einasta ári.

EINAR:

Sú breyting yrði að komast á á nokkrum dögum! — Annars er staða þín í veði. Allt kann að verða um seinan.

JOHNSEN:

Um seinan! — Já, þetta líf, -- þetta líf!

EINAR:

Með enska skipinu á morgun, eða annað kvöld, koma bréf harðari, en þau síðustu. — Allt í reglu á fám vikum — annars afsetning vís!

JOHNSEN:

Og jeg sem hef þjónað honum í 20 ár!

Þeir virða ekki mikið strit og stríð heillar æfi, þessir góðu herrar.

EINAR:

Með dáðleysinu í þér setur þú hann á höfuðið. Sjálfan sig verður hver að verja í lengstu lög, verzlunareigandinn okkar, eins og aðrir menn.

Bardaginn, sem þú átt í nú, og sem horfir fjarska óvænlega fyrir þér, er ekki tapaður enn. Þú getur meira að segja sigrað enn þá, en til þess þarf þrennt. — Það fyrsta: Við verðum að breyta til!

JOHNSEN:

Breyta til? — En það léttlyndi, Einar! Breyta til! — Íslenzka verzlunin er konservativ!

EINAR:

Tíminn ríður skaflajárnuðu yfir landið. Hver, sem vill hepta för hans, verður troðinn niður, og troðinn í sundur. Við verðum að breyta til.

JOHNSEN:

Grósserinn skilur það aldrei.

EINAR:

Pakkhúsmaðurinn fær hærri laun; en verzl-

unin á það, sem hann hefur fram yfir vigt, ef það væri þá nokkuð.

JOHNSEN:

Við skulum gjöra það, svo geta viðskiptamennirnir ekki sagt, að hann vegi af þeim.

EINAR:

Zakarías í búðinni ætti að fara strax á morgun.

JOHNSEN:

Reka hann burtu, nei, Einar, það er ómögulegt, jeg get það ekki.

EINAR:

Er það satt, sem jeg hef heyrt sagt, að þú sért öllum góður, nema þeim, sem þú ert skyldugur til að vera góður við?

JOHNSEN:

Kemur þú með konuna mína einu sinni enn? — Enga útúrdúra, Einar!

EINAR:

Nei, enga, alveg rétt! Það var Zakarías! — Fullorðinn hundur léti sér ekki koma til hugar, að ætla sér að lifa á laununum hans! Hann tekur úr skúffunni! — Þú borgar!

JOHNSEN,
(hálf máttlaust):

Íslenzka verzlunin er konservativ!

EINAR:

Meiri undirballance í ár en áður! — Þú eyðir miklu — og Zakarías byggir hús!

JOHNSEN:

Hm! — Zakarías byggir hús! — Við segjum honum upp á morgun.

EINAR:

Skuldin við verzlunareigandann er nú, að mér sýnist, allt að því 6000 kr.

JOHNSEN,
(slær höndunum saman):

Svo langt er það komið! Fjandinn taki það!

EINAR:

Þessar 5—6000 kr. færðu til láns hjá Thorkelín; þekki engan annan, sem gæti það og fengist til að lána þér það.

JOHNSEN:

Thorkelín lánar ekki einn grænan eyrir, sá bannsettur svíðingur!

EINAR:

Jeg ábyrgist 4000 kr. af því, meira get jeg ekki. Á ekki meira til, ef þetta dót, sem er í eign minni, væri selt.

JOHNSEN:

En get jeg þegið það af þér, Einar?

EINAR:

Gjöri það vegna annara, ekki þín.

JOHNSEN:

Náttúrlega ekki vegna mín.

EINAR:

Svo tekur þú Brynhildi á kontórinn 4—5 tíma á dag. Jeg fæ þá lausari hendur til að líta eptir í búðinni, og til að tala við fólk, sem kemur að verzla — náttúrlega þegar þú ert ekki viðlátinn sjálfur.

JOHNSEN:

En Brynhildur, — þú veizt, að hún er nú —

EINAR:

Já, jeg veit það; en hún er ekki farin af heimilinu fyrir því.

JOHNSEN:

Já, en getur hún nokkuð?

EINAR:

Getur? — Enginn efi. — Kennt henni sjálfur. En svo er það þriðja og síðasta: Þú hættir algjörlega að drekka, Johnsen.

JOHNSEN:

Ómögulegt! — Hvað á jeg að gjöra við tímann?

EINAR:

Nota hann til einhvers þarfara.

JOHNSEN:

Ómögulegt, Einar, við verðum að láta það bíða að tala um það. Jeg þarf að hugsa mig um.

EINAR:

Þá er að taka Thorkelín glóðvolgan.

JOHNSEN:

Já, Thorkelín, fjandinn taki hann! Jeg verð að fylla hann, svínið, annars gjörir hann það ekki.

(Þeir fara báðir út um dyrnar til hægri. — Frú Sigríður og frú Guðríður koma frá danssalnum).

Frú Guðríður:

Þú ert alltaf sama hetjan; að dansa eptir það í dag, eins og ekkert sé.

Frú Sigríður:

Maður venst mörgu. Jeg varð að fara vegna þess, að frú Thorkelín var við. — Jeg gizka á, að hún hafi ekki þagað síðan hún fór frá okkur í dag.

Frú Guðríður:

Það hefur allt lagazt með manninn þinn og trúlofun Brynhildar.

Frú Sigríður:

Guð veit — jeg ekki!

Frú Guðríður:

Jú, Kristján hefur talað við hann og það féll allt í ljúfa löð. Johnsen varð svona reiður, af því að hann hélt, að það væri einhver annar.

Frú Sigríður:

Og sá misskilningur varð að koma niður á mér!

(Frú Thorkelín kemur frá danssalnum og kyssir frú Sigríði á báðar kinnarnar).

Frú THORKELÍN:

Bon soir, frú Johnsen! Jeg þakka fyrir síðast!

Frú SIGRÍÐUR:

Það er ekkert að þakka.

Frú THORKELÍN,

(með lægra rómi):

Og börnin eru glöð og lukkuleg. (Hátt). Það hefur allt lagazt, vona jeg?

Frú SIGRÍÐUR:

Það er allt komið í bezta horf!

Frú THORKELÍN:

Hvað sagði jeg ekki? — Dansar hann vel þessi herra — Hjálmar Pálsson trúi jeg — sem þér dönsuðuð les Lanciers við?

Frú GUÐRÍÐUR:

Hann dansaði ágætlega.

Frú SIGRÍÐUR:

Og hefur ekki farið aptur með það.

Frú THORKELÍN:

Voi-la! (Gengur frá þeim.) Hún hefur engan bláan blett á kinnunum, og trúlofunin kom-

in í bezta lag — og jeg sem er búin að segja öllum —! (Gengur inn í danssalinn).

Frú GUÐRÍÐUR:

Eptir þenna dag hætti jeg að umgangast frú Thorkelín. Hún sveik þig með kossi fyrir augunum á mér.

Frú SIGRÍÐUR:

Hvernig þá?

Frú GUÐRÍÐUR:

Hún er nærsýn, en hefur ekki viljað horfa á þig gegnum lorgnettið, og kyssir þig til að sjá, hvort þú ert ekki blá á annari hvorri kinninni, eptir það í kvöld.

Frú SIGRÍÐUR:

Jeg er hissa! Því skal hún vera að spyrja um það, hvernig hann Hjálmar Pálsson dansi?

Frú GUÐRÍÐUR:

Jeg veit ekki. — Jú, hún situr allt af yfir sjálf.

Frú SIGRÍÐUR,

(hugsandi):

Því skal hún vera að spyrja mig hvernig ókunnugur maður dansi?

Frú GUÐRÍÐUR:

Hún öfundar víst allar konur, sem fá að dansa.

Frú SIGRÍÐUR:

Það er ekki ólíklegt.

(Þær ganga inn í danssalinn. Johnsen, Thorkelín, Sigurður Þorsteinsson, Gísli, Einar og þjónn koma inn frá hægri).

THORKELÍN:

Við skulum heldur vera uppi á loptinu, en fá okkur herbergi þar bara fyrir okkur.

JOHNSEN:

Jeg vil heldur vera á almannafæri, Thorkelín, jeg er svo félagslegur. — Þjónn! jeg vil fá toddý handa 5 manns.

ÞJÓNNINN:

Á það að vera whisky, konjakk, romm eða arrak?

THORKELÍN,

(nýr saman höndunum):

Jeg held að arrak væri gott!

ÞJÓNNINN:

Arrak? — Ja, það höfum við nú ekki til.

THORKELÍN:

Því ertu þá að bjóða það? Nú, romm þá!

JOHNSEN:

Heila flösku af góðu rommi, heitt vatn og glös! – Herra Sigurður Þorsteinsson og herra Gísli Jónasson, þið gjörið svo vel!

EINAR,

*(lágt við Johnsen):*

Nei, Johnsen. — Ekki meiningin, að við værum svo margir.

[Þjónninn færir það umbeðna. Þeir setjast við borðið til vinstri og búa sér til toddý. Frú Thorkelín kemur út í salsdyrnar, og litast um, en Thorkelín beygir sig undir borðið meðan hún gengur út til hægri. Báðar vængjahurðirnar eru opnar litla stund. Hljóðfærasláttrinn heyrist og dansinn sést ganga fullum fetum. Salsdyrnar lokast aptur, og hljóðfærasláttúrinn heyrist ekki lengur].

JOHNSEN:

Hamingjan hjálpi mér! Er opinn kjallarahlemmur hér? Hvað varð af Thorkelín?

THORKELÍN,

*(kemur upp undan borðinu aptur):*

Jeg missti vindilinn undir borðið.

JOHNSEN:

Nú, ekki annað! Skál herrar mínir, skál gamli vinur! (Klingir við Thorkelín).

SIGURÐUR:

Þú ert hættur að dansa í kvöld, Gísli, hvað veldur því?

GÍSLI:

Jeg dansa ekki meira í kvöld. Hljóðfæraslátturinn er farinn að stíga mér til höfuðsins.

SIGURÐUR:

Já, það er satt, þú verður æfinlega fullur á hverju balli.

GÍSLI:

Uss, uss, en sá durgsháttur!

THORKELÍN:

Veiztu hvað hann Þorkell ritstjóri hefur gjört mér nýlega?

JOHNSEN:

Nei!

THORKELÍN:

Hann tekur auglýsingu í blaðið sitt frá einhverjum Jóni Jónssyni, um að steinolían

frá mér logi illa. Hann hefur víst búið til auglýsinguna sjálfur.

JOHNSEN:

Ertu ekki búinn að höfða skaðabótamál?

THORKELÍN:

Nei. — Því þá hefði hann undir eins sett mig í blaðið!

SIGURÐUR:

Þér hefðuð ekki dáið af því.

JOHNSEN:

Ef þú ferð í mál, þá fengir þú dóm fyrir því, að steinolían væri góð.

THORKELÍN:

Nei, svoleiðis dóm fær hún aldrei á þessari jörð, Johnsen! – Nei, jeg setti aðra auglýsingu í annað blað, frá allt öðrum Jóni Jónssyni, um að steinolían hans Thorkelíns væri sú bezta, sem hann hefði fengið í 20 ár.

JOHNSEN:

Skál, gamli refur! (Klingir við Thorkelín. Smáhlátrar hjá hinum og Thorkelín mjög drýgindalegur. Johnsen stendur upp og tekur Einar með sér; við Einar): Er ekkert farið að sjá á Thorkelín?

Einar:

Mátt ekki vera svona bráðlátur, það verður bráðum. — Passaðu sjálfan þig betur. (Þeir setjast aptur við borðið).

Thorkelín:

Það er ljóta landið að lifa á, maður getur ekki selt steinolíu, kol og flesk í friði hér. Í Ameríku verða menn fimmtugfaldir miljónaeigendur bara á steinolíu.

Johnsen:

Þú gætir þó hjálpað vin í vanda, svo það munaði um. Skál, Thorkelín! Drekktu út, aptur í glasið! Og þér, Sigurður, gjörið þið svo vel! Hafið þið það sterkt, það eru fleiri flöskur til, he, he, he.

Sigurður:

Jeg drekk æfinlega sterkt toddý.

Thorkelín:

Það er forláta regla, hvað á tómt vatn? Ekki eykur það kaup eða sölur.

Sigurður:

Þegar jeg er orðinn prestur í Grímsey eða á Þönglabakka, þá fæ jeg ekki nema brennivín, það vitið þið vel. — Nei, jeg held

með Thorkelín, og vildi heldur verða prestur í Ameríku.

Gísli:

Síðan Ingibjörg á Silfralæk fór til Kanada, til að leita sér annars og betra mannsefnis, þá heldurðu að öndvegissúlurnar þínar séu reknar upp úr Winnipegvatninu.

Sigurður,

(reiður, en stillir sig):

Sá, sem nefnir heiðvirðan kvennmann á nafn á drykkjustofu, er — er ekki comme il faut — er dóni!

Einar:

Mér hefur staðið til boða pláss í Ameríku í tvö ár. — Endurnýjað við mig alveg nýlega.

Sigurður:

Hvaða pláss er það eiginlega?

Einar:

Vera ráðsmaður og skytta á stórum búgarði vestur í „Rocky mountains“. — Maður fór úr búðinni frá okkur fyrir 15 árum, nú orðinn stórríkur. Ofan úr fjöllunum kemur the grizzly bear, drepur fénað og kannske menn. Maðurinn heyrir aldrei íslenzkt orð

talað kringum sig, — þreyttur og leiður. Vill fá ráðsmann, sem er fyrirtaks skotmaður og talar málið, ætlar annars að deyja úr leiðindum og heimþrá.

THORKELÍN,
(við Sigurð):

Hvaða b e r nefndi hann, er það verzlunarvara?

SIGURÐUR:

The grizzly bear.

THORKELÍN:

Já, og hvað er það allt saman?

SIGURÐUR:

Það er fárgrimmur bjarndýrsdurgur, sem hvorki rakar sig né greiðir sér. — Allur kafloðinn í andlitinu.

THORKELÍN:

Nú, það er svo að skilja.

SIGURÐUR:

Látið þið mig fá plássið!

JOHNSEN:

Til þess að taka það, þyrftuð þér að geta

hitt lófastóran blett — annað hvort heilann eða hjartað í birninum — tvisvar eða þrisvar á nokkrum sekúndum. Björninn er fjarskalega skotharður.

SIGURÐUR:

Látið þið mig samt fá plássið. Jeg tala málið við karlinn, jeg get verið fyndinn, og læri að skjóta birni.

JOHNSEN:

Fyrir óvana skyttu er opinn dauðinn.

SIGURÐUR:

Hvað getur hann eiginlega gjört manni?

EINAR:

Vínsölubannslög í ríkinu, whisky ófáanlegt í 100 mílna fjarlægð.

SIGURÐUR:

Ekki skal mig fuı a, þó aumingja manninum leiðist.

EINAR:

Plássið stendur aðeins tveim mönnum til boða, Johnsen eða mér.

JOHNSEN:

Og jeg kynni að taka það sjálfur.

THORKELÍN:

Það gjörir þú aldrei að eilífu, Johnsen, að setjast að undir þeim ólögum, að geta ekki fengið nokkurn dropa til að bæta vatnið, sem þú drekkur.

JOHNSEN:

Svo illa gæti farið fyrir manni, ef maður ætti ekki þessa góðu vini, sem maður á. (Við Einar). Er ekkert farið að sjá á honum? (Einar kinkar kolli. Johnsen stendur upp og heldur á glasinu sínu). Jeg vona að þið leyfið mér að mæla fyrir skál bezta borgara bæjarins, manns, sem byrjaði með tvær hendur tómar, en sem við vonum að lifi það, að eiga ekki minna, en 100000 krónur. — Thorkelín, gamalreyndi vinurinn minn! Okkar hjörtu hafa jafnan mætzt —

GÍSLI:

Í þrælarommi! — (Johnsen sezt ráðalaus niður, Thorkelín lítur í kringum sig og veit ekki því Johnsen hættir).

SIGURÐUR:

Gísli! Farðu og vertu annarsstaðar, einhversstaðar langt frá okkur fjórum!

EINAR:

Þér eyðileggið allt — talið þér um annað!

GÍSLI:

Mig furðar mest, Thorkelín, að þér, sem eruð svo sterkur maður, skylduð ekki gefa ritstjóranum á hann, fyrir auglýsinguna.

THORKELÍN:

Hamingjan hjálpi yður, maður! Þá hefði fanturinn undir eins sett mig í blaðið!

JOHNSEN:

Skál, Thorkelín! Þú ert ekki fyrir þess háttar stórræði.

THORKELÍN:

Illa þekkir þú mig, Johnsen, eptir allan okkar kunningsskap.

JOHNSEN:

Þú ert orðinn svo mildur með aldrinum.

THORKELÍN:

Jeg er lamb í samsætum, Johnsen, en ljón þegar jeg á mín í að hefna.

JOHNSEN:

Já, ljón, það ertu í aðra röndina, Thor-

kelín, en eins og mús undir fjalaketti — (Einar hnippir í hann og hann þagnar).

THORKELÍN:

Jú, svei mér þá, jeg er allt af ljón, Johnsen! (Frú Thorkelín kemur inn frá hægri og svipast um, Thorkelín hverfur undir borðið. Johnsen grípur glasið sitt og stendur upp. Frú Thorkelín fer út aptur).

JOHNSEN,

(lyptir glasinu hátt):

Ljónið lifi, Thorkelín lifi! ljónið lifi! (Sér Thorkelín hvergi). Hver fjandinn er nú orðinn af Thorkelín?

THORKELÍN,

(undir borðinu):

Jeg missti trúlofunarhringinn minn á gólfið!

JOHNSEN:

Láttu hann bara liggja þar.

THORKELÍN,

(kemur upp undan borðinu):

Na — na — na — na! Skál, Johnsen! skál, herrar mínir! (Þeir klingja allir). Hér gloprar maður öllu niður, hér er enginn friður, við skulum flytja okkur upp á loptið.

JOHNSEN:

Klára úr flöskunni fyrst og flytja okkur svo. Jeg þyrfti að tala við þig, góði Thorkelín. — Manstu eptir þessari vísu?

*(Syngur)*:

Fyrrum í daga sú list var nú lént
lífsins að slaga í turnarament.
Hann drakk sig af fótunum, segi jeg satt,
:|: og svo varð hann ljótur, þegar hann datt :|:

*(Frú Sigríður kemur frá danssalnum og gengur til Johnsens).*

Frú SIGRÍÐUR:

Má jeg tala við þig eitt orð?

JOHNSEN:

Þó þú viljir tvö. *(Stendur upp. Þau ganga yfir til hægri handar).*

Frú SIGRÍÐUR:

Jeg gjörði það vegna hennar Höddu, að fara hingað í kvöld.

JOHNSEN:

Hvað varðar mig um það?

Frú SIGRÍÐUR:

Vilt þú þá ekki gjöra það hennar vegna að drekka ekki meira? Þú ert farinn að syngja,

við mæðgurnar heyrðum það inn í danssalinn.

JOHNSEN:

Jeg álít, að maður, sem ekki má syngja þegar hann vill, sé hraparlega illa giptur.

Frú SIGRÍÐUR:

Jeg á svo bágt með að vera hér, ef þú — (Forstöðumaðurinn fyrir dansleiknum kemur frá salnum og hneigir sig fyrir frú Sigríði).

FORSTÖÐUMAÐURINN:

Við eigum aðeins eptir að dansa einu sinni út og röðin er komin að okkur. — Má jeg —? (Frú Sigríður hneigir sig stásslega fyrir Johnsen. Forstöðumaðurinn leiðir hana inn í salinn).

JOHNSEN:

Jeg held, að þessi útskrifaða höfuðbók ímyndi sér, að hún hafi verið löggilt í gær.

THORKELÍN:

Na — na, Johnsen, því kemur þú ekki? Við erum að ljúka úr flöskunni. (Þeir klingja, drekka út úr glösunum. Einar hnippir í Johnsen. Þeir og Thorkelín fara til vinstri handar á leiksviðinu).

JOHNSEN:

Geturðu ekki lánað mér peninga, Thorkelín?

THORKELÍN:

Jeg veit ekki. Hvað mikið ætti það að vera?

EINAR:

Það er eitthvað á milli 5—6000 króna.

THORKELÍN:

Það er mikið, og veðið er?

EINAR:

Jeg geng í ábyrgð fyrir 4000 krónum af því, jeg get ekki ábyrgst meira, á ekki meira til, þó allt mitt dót væri selt.

THORKELÍN:

En afganginn?

JOHNSEN:

Ábyrgð fyrir honum er ófengin, nema ef alda vinátta gæti verið það okkar í milli, Thorkelín?

THORKELÍN:

Vinátta, sem er 2000 kr. virði, fæst ekki

hér á markaðinum, Johnsen! — Hvað liggur við, ef jeg ekki get lánað þér peningana?

EINAR:

Öll velferð Johnsens og fólksins hans — staðan í veði.

JOHNSEN:

Fyrir mér er allt undir þessu komið. Þú skalt fá hvern eyri aptur! (Hás). Það er í síðasta skipti sem jeg bið þig, Thorkelín. Mundu eptir öllu, sem á milli okkar hefur farið.

THORKELÍN:

Maður gjörir mikið | fyrir vini sína, Johnsen! (Þjónar koma með stóra Champagneglasabakka og setja þá á borð: Báðar vængjahurðirnar að danssalnum opnast, fólkið inni dansar „Klap finale“, síðasta túrinn í Francaise, dansinn hættir, músikkin þagnar: Þeir, sem hafa dansað, leiðast, karl og kona, fram í forsalinn, hlæjandi og talandi, og velja sér glös).

FORSTÖÐUMAÐURINN:

Má jeg biðja hljóðs?

JOHNSEN:

Hljóð skal vera!

FORSTÖÐUMAÐURINN:

Herra kandídat Sigurður Þorsteinsson mælir fyrir minni kvenna.

SIGURÐUR,

(með Champagneglas í hendinni):

Frúr og herrar! — Margur dansar, þó hann dansi nauðugur.

NOKKRAR UNGAR DÖMUR:

O—o! Ekki margir!

SIGURÐUR:

Mér fellur það erfitt að mæla fyrir minni kvenna, jeg er ekki svo háleitu starfi vaxinn.

NOKKRIR UNGIR MENN:

Því ekki?

SIGURÐUR:

Af því að jeg hef aldrei lært neina mannasiði. En í staðinn fyrir skálarræðu gæti jeg sagt ykkur sögu.

FORSTÖÐUMAÐURINN:

Við Íslendingar erum æfinlega sögumenn!

SIGURÐUR:

Í fornöld var Íslendingur nokkur að búa

sig til utanferðar. Heitmey hans var hrædd um, að hann mundi gleyma sér erlendis, og fór til gamallar seiðkonu —

JOHNSEN:

Hvað var hún að gjöra þar?

SIGURÐUR:

og leitaði ráða. Seiðkonan fékk henni hálsmen úr skíru gulli, sem Gunnhildur konungamóðir hafði átt, og lagði svo ráðin á.

JOHNSEN:

Ja, hvaða ráð gátu verið við því?

SIGURÐUR:

Mærin gaf honum menið að skilnaði og bað hann að bera það í fyrstu veizlunni, sem hann sæti í við konungshirðina í Noregi.

Pilturinn kom til hirðar Ólafs Tryggvasonar og gjörðist hans maður, en eptir því, sem hann sá optar Ingibjörgu konungssystur og skemmumeyjar hennar, eptir því hitnaði honum meira um hjartaræturnar, og stjarnan úti dalnum á Íslandi bliknaði meira og meira. (Brynhildur hreyfir sig eins og hún hafi óþægilega tilfinningu). Þá kom fyrsta veizlan við hirðina —

JOHNSEN:

Með mjöð og munngáti! —

SIGURÐUR:

Að líkindum! — Hann lét á sig menið og hugsaði heim í dalinn á Íslandi, gekk í konungshöllina og brá mjög í brún, að konungssystir og meyjar hennar litu aptur út eins og aðrar dauðlegar verur.

JOHNSEN:

Alveg vanalegi gangurinn!

NOKKRIR KARLMENN:

Uss, uss!

SIGURÐUR:

En dalstjarnan skein í heiði, varð að tungli og síðast að heitri, skínandi himinsól, og hann gat ekki tekið á heilum sér fyrir þrá og löngun eptir að komast heim til hennar aptur.

JOHNSEN:

En sá þorskur!

SIGURÐUR:

Menið hafði þessa verkun. — Hann fékk ekki heimfararleyfi hjá konungi. Þegar hann

ætlaði að taka menið af sér, var það orðið heilt þar sem læsingin var, og að síðustu gréri það fast við hálsinn. (Lágóp: „Úh-ha“ — „sagan er ljót“). En það er góð meining í henni. Næst þegar fréttir komu af Íslandi, var dalstjarnan gipt öðrum. Hann féll á Orminum langa við Svoldur. Menn Eiríks jarls sáu menið á honum í valnum; til þess að ná því af, urðu þeir að höggva af honum höfuðið, og flá það af hálsinum.

NOKKRAR UNGAR STÚLKUR:

Úh-úh!

SIGURÐUR:

Fyrirgefið frúr! Í fornöld var venjan að segja hverja sögu eins og hún gengur, þó það sé ekki nú. — Gullið í meninu kvað nú vera í smáögnum út um allan heim, en það kemur örsjaldan fyrir – segja gullsmiðir — að það gull komi í trúlofunarhringa. —

JOHNSEN:

Alveg talað út úr mínu hjarta!

FORSTÖÐUMAÐURINN:

Jeg skil ekki hvernig þetta á að vera minni kvenna.

SIGURÐUR:

Hver kvennmaður á svona töframen; því að hver stúlka á tvo handleggi og ef hún leggur þá báða vel um hálsinn á einhverjum, þá fer fyrir honum eins og piltinum í sögunni, að hann getur ekki náð því meni af sér aptur, og gleymir henni aldrei. — Jeg bið þá, sem við eru, að drekka minni kvenna! Kvennfólkið lifi! (Húrra-óp, þrjú löng og þrjú stutt og eitt einstakt á eptir. Lúðraþytur. Menn drekka almennt skálina. Brynhildur og Kristján setja frá sér glösin án þess að drekka úr þeim og draga sig fram í hornið til hægri og tala lágt hvort við annað).

BRYNHILDUR:

Eptir þessa ræðu dansa jeg ekki í kvöld.

KRISTJÁN:

Það verður þó langt þangað til við dönsum saman aptur.

BRYNHILDUR:

Það er svo mikill óhugur kominn yfir mig af henni, að nú fer jeg heim. Svo er fleira, sem þrengir að mér hér.

KRISTJÁN:

Er nokkuð af því mér að kenna?

BRYNHILDUR:

Nei, nei. Því spyrðu um það? (Réttir honum hendina). Góða nótt!

KRISTJÁN,
(tekur í hönd henni):

Er það bara ræðan? (Hún kinkar kolli). Við sjáumst á morgun? (Hún kinkar kolli aptur og fer, hann horfir á eptir henni). Þetta skal koma niður á Sigurði Þorsteinssyni! Mín sól er gengin til viðar í kvöld!

THORKELÍN,
(við frú Thorkelín vinstra megin á leiksviðinu):

Get jeg ekki lánað honum faktor Johnsen 5—6000 kr.? Jeg hef alveg áreiðanlegt veð fyrir 4000 kr. af því, fyrir hinu fæ jeg veð, jeg veit ekki enn hve gott það er. Mig langar til að gjöra þetta.

Frú THORKELÍN,
(hristir höfuðið):

Honum Johnsen? Hann er alveg kominn á höfuðið. Láttu hann eiga sig sjálfan! Hann verður rekinn frá verzluninni og þá lækkar nú rostinn í sumum. Hann borgar aldrei.

THORKELÍN:

Þá hef jeg veðið og sel það. Jeg tapa engu.

Frú THORKELÍN:

Eru þau ekki búin að koma henni Brynhildi út við þennan læknisdreng, og við dóttur okkar lítur enginn maður, þó hún sé flugrík og 10 árum eldri?

THORKELÍN:

Na — na! Brynhildur er fríð stúlka!

Frú THORKELÍN:

Þú átt ekki að láta hana brúka þína peninga, til að dansa með þá á herðunum á henni dóttur okkar. Ef strákurinn vill eiga hana, þá er bezt að hann taki hana upp af götunni. Þú skalt sjálfan þig fyrir hitta, ef þú gjörir mér þá skapraun, að fleygja þessum þúsundum ver en í sjóinn. (Fer frá honum).

EINAR,
(kemur til Thorkelíns):

Hafið þér hugsað yður um, Thorkelín?

THORKELÍN:

Er ekki staða Johnsens fremur óviss í svipinn?

Einar:

Ekki ef lánið fengist.

Thorkelín:

En því viljið þér vera að setja aleigu yðar í hættu, Einar?

Einar:

Allt, sem jeg á, hef jeg eignazt í hans þjónustu.

Thorkelín:

Jeg get það ómögulega, því er ver. Upphæðin er svo mikil, og þó hún væri minni, gæti jeg það ekki samt. (Fer frá honum).

Einar,

(við Johnsen sem kemur til hans):

Thorkelín vill ekki — segist ekki geta það.

Johnsen:

Alveg eptir honum að lýsa. — Thorkelín fer til fjandans, og þar kynda þeir undir honum mygluðu fleski og steinolíu um aldur og æfi.

Sigurður,

(kemur til þeirra):

Verði það gjört með hans eigin steinolíu, þá logar ekki á henni!

JOHNSEN:

En þessi aldeilis brillíanta ræða! Þetta með trúlofunarhringana var alveg talað út úr mínu hjarta. (Klingir við Sigurð).

SIGURÐUR:

Kvennfólkinu líkaði hún mjög illa.

JOHNSEN:

Kvennfólk! — Fjandinn sjálfur getur ekki gjört því til hæfis.

SIGURÐUR:

Nei, það getur hann ekki. (Fer frá þeim).

EINAR,

(daufur í bragði):

Þá sýnist mér að ósigurinn sé viss, Johnsen.

JOHNSEN:

Jeg vil ekki sjá þá svívirðing foreyðslunnar, jeg fer burt eins og jeg ætlaði mér, og fer að skjóta, svo getur hvað sem vill skeð á meðan. Jeg get ekki gjört meira.

EINAR:

Hestarnir standa í portinu, — verður að koma þeim á gras!

JOHNSEN:

Nei, jeg fer strax! Jeg ætla að heyra fuglana syngja í fyrra málið. — Þeir flauta! (Flautar). Skál, Sigurður! (Sigurður er hvergi nærri. Johnsen drekkur út). Þessi aldeilis brillíanta ræða! (Fer).

Frú SIGRÍÐUR,
(kemur til Einars):

Hvert fór Johnsen?

EINAR:

Hann er farinn af stað á veiðar, og verður víst 7—8 daga burtu.

Frú SIGRÍÐUR:

Því eruð þér svo íbygginn, Einar?

EINAR:

Við höfum orðið fyrir nýrri óheppni í kvöld.

Frú SIGRÍÐUR:

Og hvað er það?

EINAR:

Nú veit jeg fyrir víst, að skipið sekkur.

Frú SIGRÍÐUR:

Jeg skil ekki.

EINAR:

Þér eigið heimili, frú, — það er að segja, við öll þarna niður frá erum stödd á skipi, sem er á sjó, — og skipið sekkur — skipið sekkur! (**Frú Sigríður beygir þegjandi höfuðið niður, en gengur hægt í burtu frá honum. Fólkið, sem dansar, hefur verið að ganga inn í danssalinn. Allir, nema frú Sigríður og Hjálmar, fara út. Hjálmar gengur til hennar**).

HJÁLMAR:

Um hvað eruð þér að hugsa, frú Sigríður, ef jeg má spyrja?

Frú SIGRÍÐUR:

Um skip, sem er að sökkva.

HJÁLMAR:

Við erum samt á þurru landi í kvöld.

Frú SIGRÍÐUR:

Ekki öll; að minnsta kosti ekki í huganum. Hugsið þér yður, að jeg sé á skipinu, og hvert skipti, sem jeg lít út fyrir borðstokkinn, er sjórinn orðinn hærri fyrir utan. Jeg lít út yfir hafið til að skyggnast eptir hjálp —

HJÁLMAR:

Og sjáið skip koma undir fullum seglum. – Þér látið draga upp fárveifu í hálfa stöng; hitt skipið kemur; þér þekkið manninn við stýrið — ja, hver er það nú?

Frú SIGRÍÐUR,
(brosir):

Einar Jónsson — sýnist mér.

HJÁLMAR:

Jeg hélt það væri allt annar maður —

Frú SIGRÍÐUR:

Þér sjálfur — eða hvað?

HJÁLMAR:

Finnst yður, að jeg mundi vilja frelsa líf yðar af skipsflaki, ef jeg gæti það?

Frú SIGRÍÐUR:

Jú, það munduð þér gjöra. En jeg er svo hrædd um, að þér settuð mig á land á næsta nesi, eða á næstu ey. Þegar jeg færi svo að hugsa um, hvað ætti að verða úr æfintýrinu, þá flýttuð þér yður burt, eins og þér gætuð.

HJÁLMAR:

Þér straffið mig harðlega.

Frú SIGRÍÐUR:

Jeg vildi helzt ekki gjöra það. En vitið þér ekki, að til þess að ná ást laglegrar stúlku þarf hugrekki?

HJÁLMAR:

Hvað sem hugrekkinu líður, þá átti jeg einu sinni þá ást, sem þér talið um.

Frú SIGRÍÐUR:

Finnst yður ekki vera langt síðan sá hlutur týndist úr eigu yðar?

HJÁLMAR:

Jeg hef ekki talið ár eða daga síðan. En síðan hún hvarf mér sjónum, hef jeg hvergi fest yndi, hvar sem jeg hef verið. Allar fríðar stúlkur hafa að eins minnt mig á hana, en engin þeirra gat verið hún fyrir mig. Jeg þekki ekkert heimili í víðri veröldu, nema þar sem hún er. Maður tregar sáran konuna, sem maður elskar, þegar hún er misst.

Frú SIGRÍÐUR:

Hverjum er að kenna? Þér hefðuð getað komið þessu öðruvísi fyrir sjálfur, ef þér hefð-

uð talað við mig meðan tími var til. Við hefðum þá getað ráðið ráðum okkar í sameiningu. Við konur heimtum að eiga atkvæðisrétt um öll málefni, sem varða hjartað. Við þekkjum lögmál elskunnar betur en þið.

HJÁLMAR:

Um það málefni getið þér greitt atkvæði enn þá.

Frú SIGRÍÐUR:

Það gæti verið. Jeg finn ekki hvaða fjötrar ættu að binda mig nú. Jeg hef sagt mig lausa allra mála við þann, sem ætti að vera mér nánastur.

HJÁLMAR:

Í huganum hef jeg byggt höll yfir yður, og þar hafið þér setið á veldisstóli, og jeg hef fallið þar fram fyrir yður. Jeg gæti borið þetta framvegis eins og hingað til, ef jeg bara hefði ekki séð yður aptur, og reyndin væri ekki svo miklu greinilegri en ímyndunin. — Þó ekki sé annað en ljósin hjerna í salnum, þá skína þau öðruvísi á yður en allar aðrar.

Frú SIGRÍÐUR:

Heila höll, segið þér? — Tvö eða þrjú herbergi væru nóg handa mér.

HJÁLMAR:

Þau get jeg líka útvegað yður. — Það er fjarska heimskulegt — jeg veit það — að mér hefur allt af fundizt að þér væruð mín og einskis manns annars. — Komið þér með mér — til Vesturheims — eða eitthvað langt í burtu. Við skulum lifa árin, sem eptir eru, fyrir okkur sjálf, og hvort með öðru.

Frú SIGRÍÐUR:

Fyrir mig væri það víst ekki hægðarleikur. Og ætli við ættum lengi samleið, þegar út í heiminn væri komið?

HJÁLMAR:

Þér haldið, að jeg bryti lögmál elskunnar á yður aptur? — Nei, nei! Nú veit jeg hvað það kostar mann, af langvarandi, dýrri reynslu, sem aldrei sefur. Það er sorglegt vantraust, sem þér hafið á mér!

Frú SIGRÍÐUR:

Við höfum skilið of fljótt, og fundizt aptur of seint! (Sigurður Gísli og Gunnar **koma inn og nema staðar við borðið til vinstri).**

HJÁLMAR:

Jeg get ekki skilið við yður svo, að þetta sé það síðasta, sem jeg heyri yður segja.

Frú Sigríður:

Þér getið komið til mín og talað við mig þegar þér viljið. Jeg ætlaði ekki að skilja við yður með þessum orðum. Jeg þakka yður fyrir kvöldið, jeg hef verið ung aptur í marga tíma. (Hneigir sig, tekur í höndina á honum, fer).

(Kristján kemur inn og gengur til Sigurðar).

Kristján,
(slær á öxlina á honum):

Jeg hef verið að leita að þér, Sigurður.

Sigurður:

En sá heiður fyrir mig!

Kristján:

Þú færð hvergi annað en skömm fyrir þessa ræðu, sem þú hélzt.

Gunnar:

Maður dansar ekki með ánægju eptir svona ræðu.

Kristján:

Þú hefur eyðilagt alla ánægju fyrir mér í kvöld.

Sigurður:

Ó þú barnið mitt Brútus!

KRISTJÁN:

Jeg er enginn Brútus! — En jeg hef traust til lífsins, og þá trú hef jeg á körlum og konum, að þótt fólk bregðist stundum hvað öðru, þá sé ekki æfinlega sjálfsagt að það gjöri það.

SIGURÐUR:

Þú ert reiður út af þessari meinlausu lokleysu.

KRISTJÁN:

Já, bálreiður! Til þess að hafa af mér reiðina, þyrfti jeg að fást við aflraunir í marga klukkutíma.

SIGURÐUR:

Þú ert ekki sá eini, sem er reiður. Stúlkurnar vilja ekki dansa við mig í kvöld, af því að jeg talaði illa um þessa hringa, sem þær endilega vilja hafa á hendinni.

KRISTJÁN:

Jeg get ekki fyrirgefið þér það, að þú hefur eyðilagt kvöldið fyrir mér og mörgum öðrum.

SIGURÐUR,

(tekur bann með sér utar):

En þú skilur það, þegar jeg segi þér, að

það eru nú ekki nema 6 vikur, síðan að unnustan mín skrifaði mér, að nú ætlaði hún að giptast öðrum. **(Fer frá honum. — Kristján horfir á eptir honum. — Meðan þeir hafa talað saman hefur Hjálmar látið þjóninn bera inn flöskur og glös. Þjónninn hefur skeinkt í glösin, Gísli og Gunnar hafa setzt við borðið).**

HJÁLMAR:

Jeg vildi klingja við þig, Kristján, áður en jeg færi. (Við Sigurð). Gjörið þér svo vel, herra —

KRISTJÁN:

Sigurður Þorsteinsson — Hjálmar Pálsson! **(Þeir klingja. Gísli sezt niður, snýr næstum við þeim bakinu og starir út í loptið. Hinir setjast).**

GUNNAR:

En rykið þarna inni, það hefur setzt allt í kringum hálsinn á mér.

SIGURÐUR:

Maður þarf að viðra sig.

KRISTJÁN:

Jeg komst í geðshræringu, jeg vildi helzt róa tvær eða þrjár vikur sjáfar áður en jeg sofna.

GUNNAR:

Við skulum fara út á sjó og láta rykið fjúka af okkur. Þegar jeg gekk hingað í kvöld, blikaði birtan af sjónum inn í sundunum.

HJÁLMAR:

Hann var eins og lifandi spegill, sem sólin skín á.

GUNNAR:

En vestur til hafsins var hann farinn að ókyrrast, og bárugárarnir roðnuðu í kambinn undir sólu að sjá.

SIGURÐUR:

Sjórinn minnir mig á langan og fastan svefn, þegar hann er rólegur.

GUNNAR:

Því siturðu svona, Gísli?

GÍSLI:

Jeg er að horfa út á sjóinn.

SIGURÐUR:

Þú snýrð bakinu að sjónum.

GÍSLI:

Jeg sé sjóinn!

HJÁLMAR:

Og á þeim sjó?

GÍSLI:

Bát á siglingu með fjórum á. Sjórinn rýkur.

GUNNAR:

Hana-nú! Þar hefur honum loksins tekizt að fá delirium!

SIGURÐUR:

Og báturinn?

GÍSLI,

*(stendur upp reiður og gengur frá þeim):*

Nú sé jeg ekkert, þið glepjið mig.

SIGURÐUR:

Þú hefðir ekki átt að segja þetta, Gunnar! — Manstu ekki hvað hann sá í vetur? Það kom algjörlega heim á eptir.

GUNNAR:

Við læknisefnin trúum ekki á neitt í þessum heimi, nema bakteríur!

SIGURÐUR:

Já, jeg þekki trúarjátninguna ykkar. — Hún er ekki frá Augsburg!

HJÁLMAR,
(við Gísla):

Setjið þér yður aptur hjá okkur. Þér eruð gestur minn. (Gísli sezt utarlega við borðið andspænis Kristjáni).

GÍSLI,
(við Hjálmar, um leið og hann klingir við hann):

Þér verðið að fyrirgefa mér, jeg ræð ekki við mig í kvöld, það er stundum eins og jeg sé allt önnur vera, en jeg er vanur að vera, og eitt af þessum undarlegu augnablikum er nú yfir mér.

HJÁLMAR:

Verið þér bara eins og þér verðið að vera.

GUNNAR:

Jeg sting upp á því, að við fáum okkur bát!

KRISTJÁN:

Já, bát, já, bát!

SIGURÐUR:

Einar Jónsson á fallega skektu, nýja.

KRISTJÁN:

Hann ljær okkur skektuna strax.

Sigurður:

Hann er sjómaður og kemur sjálfur með okkur.

Kristján:

Það væri gaman að vera einu sinni úti á sjónum í hálfdimmu, og reyna sig í hvössu.

Gunnar:

Hvasst verður ekki í kvöld.

Gísli:

Ljósið skín ekki á þig, Kristján!

Kristján:

Svo!

Gísli:

Jú, það er kannske ljós, en það er þá blágulgrænt.

(Hinir líta hver á annan, sumir hrista höfuðið).

Kristján:

Jeg sef ekki í nótt, ef jeg fæ ekki tækifæri til að reyna á mig áður en jeg hátta.

Gunnar:

Við skulum endilega fá okkur bátinn!

SIGURÐUR:

Jeg segi með Byron: „Og höndum strjúka ögnar fax þitt eins og nú“.

GÍSLI:

Nei, nei, Kristján! Þú ert alvotur!

KRISTJÁN:

Ekki finn jeg til þess.

GÍSLI:

Vatnið lekur niður úr hárinu á þér, og af fótunum þínum.

GUNNAR:

Vínið er sannleikur! Við erum votir innan!

HJÁLMAR,

*(stendur upp)*:

Herrar mínir, jeg þakka fyrir góða skemmtun í kvöld. *(Við Kristján)*. Og þér sérstaklega! Fyrirgefið mér, jeg er ferðamaður og þarf víða að koma. Ef þið viljið gjöra mér til geðs, þá farið þið ekki út á sjóinn nú undir lágnættið. *(Tekur í hönd Kristjáns)*. Jeg óska að við — og við allir, fáum að sjást heilir á hófi aptur. Góða nótt!

HINIR,
(nema Gísli):

Gott kvöld — Góða nótt!
(Hjálmar fer út til hægri).

GUNNAR:

Við fáum bátinn eins fyrir því!

SIGURÐUR:

Kannske að jeg verði með ykkur.

KRISTJÁN,
(stendur upp):

Já, fljótir nú!

GUNNAR:

Jeg þarf að borga.

SIGURÐUR:

Þjónninn er ekki hér!

KRISTJÁN:

Jeg bíð, verið þið fljótir!

SIGURÐUR:

Jeg skal biðja um bátinn.

GUNNAR:

Og jeg skal útvega menn til að setja hann á flot.

KRISTJÁN:

Tíminn líður! — Tíminn líður!

(Þeir fara, nema Gísli, sem situr eptir).

GÍSLI:

Vatnið drýpur af augnalokunum á þér, Kristján!

(Báðar vængjahurðirnar inn að danssalnum opnast upp á gátt. Herganga Napoleons yfir Alpafjöll er leikin á hljóðfærin. Fólkið, sem dansar, leiðist í röð fram á leiksviðið, og gengur um það í bugðum eptir hljóðfæraslættinum —).

(Tjaldið fellur).

# III. þáttur.

[Sama stofan sem í I. þætti. Hengilampinn logar. Frú **Sigríður** og **Brynhildur** koma inn um efri dyrnar til vinstri handar].

BRYNHILDUR:

Faðir minn sagði það við Kristján á dansleiknum.

Frú SIGRÍÐUR:

Og var því fyllilega samþykkur, að þið —

BRYNHILDUR:

Já, algjörlega. — Við vissum það bæði áður. —

Frú SIGRÍÐUR:

En jeg vissi það ekki, þess vegna spyr jeg. Er Johnsen farinn af stað?

BRYNHILDUR:

Já. — Jeg er þreytt af lukku, móðir mín,

jeg ætla að fara upp í herbergið mitt. Jeg vil, að mig dreymi. (Fer út um efri dyrnar til vinstri):

Frú Sigríður:

Jeg sem hélt að blessuð rómantíkin væri sáluð! (Barið upp á). Kom inn! (Hjálmar kemur inn).

Hjálmar:

Gott kvöld, frú Sigríður!

Frú Sigríður:

Gott kvöld, gjörið þér svo vel!
(Setur fram stól).

Hjálmar:

Fyrirgefið þér, að jeg kem svo seint, jeg er ferðamaður hér eins og þér vitið.

Frú Sigríður:

Klukkan er ekki yfir 11.

Hjálmar:

Þér sögðuð, að jeg gæti komið til yðar, ef jeg vildi, áður en jeg færi.

Frú Sigríður:

Farið þér á morgun?

HJÁLMAR:

Á morgun er sunnudagur, þá verð jeg að fara langt suður með sjó og kem aptur síðari hluta dags. Jeg fer alfarinn á mánudagsmorguninn, undir eins og lýsir af degi.

Frú SIGRÍÐUR:

Og hvert ætlið þér að ná á mánudagskvöldið?

HJÁLMAR:

Upp að Kalmannstungu.

Frú SIGRÍÐUR:

Tvær dagleiðir um daginn! Hvaða lifandi skelfing liggur yður á!

HJÁLMAR:

Jörðin hér syðra er orðin svo heit, að jeg þoli ekki að stíga á hana.

Frú SIGRÍÐUR,
(lækkar róminn):

Það er ekki í fyrsta skiptið, að hún brennir yður í iljarnar. (Einar ber upp á, bíður dálítið og kemur inn um forstofudyrnar).

EINAR:

Fyrirgefið þér! — Barði upp á. — Held að þér hafið ekki heyrt það.

Frú SIGRÍÐUR:

Þér vitið, að jeg skoða yður æfinlega sem heimamann. — Ætlið þér ekki að heilsa upp á herra Hjálmar Pálsson?

EINAR:

Æ, hamingjan hjálpi mér! — Sá yður ekki. Komið þér sælir!

HJÁLMAR:

Gott kvöld!

Frú SIGRÍÐUR:

Herra Einar Jónsson bókhaldari!

EINAR:

Eruð það ekki þér, — maðurinn með alla þessa gráu hesta?

HJÁLMAR:

Það er fyrirtekt, jeg á æfinlega töluvert af gráum hestum, og nú hef jeg þá sex með mér.

Frú SIGRÍÐUR:

Sex gráa hesta! — Það er fallegasti hestalitur, sem jeg sé.

EINAR:

Verst þeir skitna svo fljótt.

HJÁLMAR:

Já, það sést fljótt á þeim.

Frú SIGRÍÐUR:

Mig langar til að sjá hestana yðar áður en þér farið.

HJÁLMAR:

Það yrði þá að vera þegar jeg kem að sunnan annað kvöld.

Frú SIGRÍÐUR:

Þér hafið sex hesta handa yður einum?

HJÁLMAR:

Jeg hef dreng með mér.

Frú SIGRÍÐUR:

Jeg reikna hann nú ekki. Þér hefðuð nóga hesta, þó þriðji maðurinn yrði með í förinni.

HJÁLMAR:

Haldið þér, að hann vilji verða mér samferða nú?

Frú SIGRÍÐUR:

Nei, hann bíður víst.

EINAR:

Ætlaði að vita hvort jeg mætti ekki fá minie-riffilinn hans Johnsens núna í kvöld. Ætla út strax nú, kem strax aptur auðvitað. — Í bítið á stað í fyrramálið.

Frú SIGRÍÐUR:

Ætlið þér út á sjó núna? Komin nótt!

HJÁLMAR:

Og veðrið lítur illa út.

EINAR:

Skektan er komin á flot, og hásetarnir öruggir. Jeg þyrfti endilega að fá riffilinn.

Frú SIGRÍÐUR:

Hann er í forstofunni, þér megið taka hann.

EINAR:

Þakka — jeg þakka. (Ætlar að fara).

Frú SIGRÍÐUR:

Það er satt, jeg þakka yður fyrir það, sem þér gjörðuð mín vegna í dag.

EINAR:

Guð blessi yður, frú Johnsen! — Minnizt

þér ekki á það. — Gleður mig yfir máta ef jeg hef gjört yður greiða með því.

Frú Sigríður:

Sá er vinur sem í raun reynist.

Einar:

Guð blessi yður æfinlega fyrir að segja það! Þeir bíða — Þeir bíða! (**Ætlar að fara**).

Hjálmar:

Hverjir fara með yður nú?

Einar:

Gunnar Þorláksson og Sigurður Þorsteinsson.

Hjálmar:

En kandídat Kristján, er hann ekki með?

Einar:

Hann hefur þá hrundið fram bátnum. — Hef ekki séð hann.

Frú Sigríður!

Hann hefði heldur komið hingað, ímynda jeg mér.

Hjálmar:

Farið þið varlega, það er komin nótt.

Einar:

Skektan siglir eins vel á nótt og degi, — Þarf ekki að sjá til.

Hjálmar:

En mennirnir á henni þurfa þess.

Einar:

Hef engan tíma — vindurinn fyllir seglin — engan tíma! (Hnegir sig og fer).

Hjálmar:

Mér þætti gaman að vita, hvort Kristján er með þeim.

Frú Sigríður:

Jeg skal opna gluggann, svo sjáið þér niður á bryggjuna. — Jeg sé illa frá mér, gjörið þér svo vel! (Hún opnar gluggann, meðan hann er opinn heyrist að farið er að hvessa úti, og gluggatjöldin blakta inn í stofuna. Eptir það heyrir maður smá hvessa, og síðast er stormur, sem helzt þangað til tjaldið fellur).

Hjálmar,
(við gluggann):

Einar hefur flýtt sér, báturinn er laus frá bryggjunni, og er að sigla af stað.

Frú SIGRÍÐUR:

Eru margir á?

HJÁLMAR:

Jeg sé ekki bátinn sjálfan, jeg sé seglin niður til miðs.

Frú SIGRÍÐUR:

Og öll segl uppi?

HJÁLMAR:

Já, öll segl uppi.

(Úti til hægri handar heyrist vaggandi söngur, karlmannaraddir):

Í eldgamla daga sú list var nú lént,
að lífsins hann slagaði í Turnarament.
Hann drakk sig af fótunum, segi jeg satt,
:|: og svo varð hann ljótur, þegar hann datt :|:

HJÁLMAR:

Þeir eru fjórir á!

Frú SIGRÍÐUR:

Það er víst einhver sjómaður sá fjórði.

HJÁLMAR,

(lágt):

Kristján hlýtur að vera með.

(Fer frá glugganum, hún lokar honum).

Frú Sigríður:

Setjið þér yður niður, og verið þér róleg-ur. Við skulum tala saman dálitla stund.

Hjálmar:

Jeg verð að reyna það. —
Segið þér mér, hvernig yður hefur liðið, og hvernig er að vera hér.

Frú Sigríður:

Það verður varla sagt í fám orðum, hvern-ig er að vera hér.

Hjálmar:

Flestir af þeim mönnum í landinu, sem helzt hafa andlega yfirburði á einhvern hátt, eru búsettir hér.

Frú Sigríður:

En þeir lifa mikið út af fyrir sig flestir, og taka lítinn þátt í samkvæmum.

Hjálmar:

Það eru þá samkvæmi hér?

Frú Sigríður:

Nokkrar miðdegisveizlur og 2—3 dans-leikir á ári, er allt, sem við höfum af „high life“ hér í bæ.

HJÁLMAR:

Eru þá engin heimili, þar sem menn geta komið saman við og við, og skemmt sér án þess annars hvors? Er ekkert salónlíf, meina jeg?

Frú SIGRÍÐUR:

Eiginlega ekki. — jeg hefði sjálf gjarnan viljað vera húsmóðir í svoleiðis húsi.

HJÁLMAR:

Og gátuð þér það ekki?

Frú SIGRÍÐUR:

Nei. — Kringumstæður mínar voru svo.

HJÁLMAR:

Það er víst ekki sérlega þægilegt að eiga heima hér.

Frú SIGRÍÐUR:

Jeg skal ekki segja, en manni verður opt ótrúlega þröngt um brjóstið, ef maður á lengi að eiga heima hér.

Fyrirgefið þér, lampinn logar dauft, jeg þarf að skrúfa hann betur upp.

(Hún skrúfar upp lampann, það verður bjartara).

HJÁLMAR:

Þér hafið ekkert breytzt í öll þessi ár.

Frú Sigríður:

Jeg átti ekki von á því, að gamall sveitamaður færi að skjalla mig.

Hjálmar:

Jeg vildi næstum óska, að það væri skjall.

Frú Sigríður:

Jeg efaðist um, að þér væruð hreinskilinn við mig, af því að jeg held, að þeir muni vera fáir nú, sem muna betur en þér, hvernig jeg leit út áður.

Hjálmar:

Því giptuð þér yður svona fljótt?

Frú Sigríður:

Jeg vildi færa vissum manni heim sanninn um það, að jeg gæti eins vel lifað án hans, eins og hann án mín.

Hjálmar:

Ef þér hafið ekki átt hægra með það, en hann hefur átt, þá öfunda jeg yður ekki.

Frú Sigríður:

Jeg hef ekki baðað í rósum.

Hjálmar:

Og þó höfðuð þér fleira en flestir aðrir

til þess að geta það. Fyrir það fyrsta ágætt uppeldi —

Frú SIGRÍÐUR:

Já, jeg var svo vel að mér, að jeg kunni næstum allt, sem jeg hafði ekkert gagn af að kunna, en ekkert einasta nytsamt verk. — Nú, en jeg lærði þau fljótt. (Stuttur stormbylur úti).

HJÁLMAR,

(sprettur upp):

Heyrið þér ekki?

Frú SIGRÍÐUR:

Það er hvasst!

HJÁLMAR:

Mér varð svo illt við. — Þeir eru að sigla úti í þessu.

Frú SIGRÍÐUR:

Þeir hafa víst snúið strax aptur, það er svo hvasst.

HJÁLMAR:

Það getur verið.

Frú SIGRÍÐUR:

Einar Jónsson er vanur sjómaður að

heita má. (Stuttur stormbylur sterkari en fyr. Elding og þruma strax á eptir).

HJÁLMAR:

Þetta er hræðilegt, og þeir höfðu öll segl uppi.

Frú SIGRÍÐUR:

Þeir eru víst komnir í land, eða að minnsta kosti nærri landi.

HJÁLMAR:

Þeir höfðu öll segl uppi!

Frú SIGRÍÐUR:

Ef þeir eru komnir á land, þá gjöra seglin ekkert, og ef þeir eru á leið í land, þá verða þeir að róa seglalaust, því að vindurinn stendur af landi.

(Á götunni fyrir utan heyrast margir menn hlaupa).

HJÁLMAR:

Því hlaupa menn svona út á götunni?

Frú SIGRÍÐUR:

Það veit jeg ekki. Ætli það séu ekki sjómenn að bjarga bát, sem ætlar að fjúka, eða ætlar að taka út af briminu? (Hún lýkur upp glugganum, angistaróp langt í burtu blandast við

þytinn af storminum. Gluggatjöldin blakta inn í stofuna af vindinum).

HJÁLMAR,
(hræddur):

Heyrið þér ekki? — Heyrið þér ekki?

Frú SIGRÍÐUR,
(lokar glugganum):

Jeg heyri vindinn þjóta, og dunurnar í sjónum. Jeg sá engan mann úti.

HJÁLMAR:

Kannske mér hafi misheyrzt. Trúið þér á fyrirburði?

Frú SIGRÍÐUR:

Jeg hef aldrei orðið vör við neitt þesskonar á æfinni, svo jeg gjöri það ekki. Eruð þér mjög hjátrúarfullur?

HJÁLMAR:

Jeg veit ekki hvað jeg kann að verða eptir kvöldið í kvöld. (Þögn).

Frú SIGRÍÐUR:

Þér eruð svo órólegur. Viljið þér ekki setjast niður aptur?

Hjálmar,

(stillir sig og sezt niður aptur):

Jeg þakka! — Jeg skil ekki hvernig því er varið, að maðurinn yðar ekki skyldi verða lukkulegur með yður.

Frú Sigríður:

Það hefði hann kannske getað orðið, ef mér hefði þótt nógu vænt um hann.

Hjálmar:

En það þótti yður ekki?

Frú Sigríður:

Það hefur víst ekki verið, því að hann gekk fljótt sína vegu, og jeg varð ein eptir í húsinu.

Hjálmar:

Og það þótti yður óbærilegt?

Frú Sigríður:

O nei. Hefði það ekki orðið neitt lakara en það, svo hefði jeg getað afborið það. — Jeg hafði æfinlega sjóinn til að hugga mig við.

Hjálmar:

Mér finnst, að það hafi hlotið að vera nokkuð — svöl — huggun fyrir yður.

Frú SIGRÍÐUR:

Nokkuð svo. Hann skiptir ham á hverri stund. Stundum er hann blíður og svæfandi, og stundum hræðilegur. Þegar jeg sat hér ein, þá óf hann sig inn í allar mínar hugsanir, eyra og auga vandist honum. Hann brosti eða ógnaði á víxl, og lengi framan af var hann allur minn heimur fyrir utan stofurnar hér.

HJÁLMAR:

Þér hugsuðuð að eins um sjóinn?

Frú SIGRÍÐUR:

Já, næstum því. Hann söng lögin sín hér fyrir utan gluggana. Mig vantaði ljós og hita í sálina, svo mér fannst stundum, að blessuð sólin hlyti að vera farin að eldast.

HJÁLMAR:

Þér hafið verið ólukkulegar strax frá upphafi.

Frú SIGRÍÐUR:

Jeg gat borið það, en heldur ekki meira. Svo kom Hadda, og jeg varð enn meira bundin við heimilið en áður. Hún var opt veik framan af og jeg bjóst við að missa hana. Stundum fannst mér, að það hlyti að vera

mesti léttir fyrir mig, ef guð tæki hana, því þá gæti jeg með þess léttara hjarta gengið í sjóinn.

HJÁLMAR:

Þér hafið átt þungu lífi að lifa.

Frú SIGRÍÐUR:

Þegar jeg sat yfir henni veikri, þá barst brimhljóðið, þungt og dunandi, inn til okkar, og mér fannst eins og það segði: Þið deyið! Þið deyið!

HJÁLMAR:

Og kom yður ekkert gleðilegra í hug?

Frú SIGRÍÐUR:

Jú, stundum. — Sjórinn söng sig svo inn í hjarta mitt, að hann heillaði mig. Jeg trúi því enn, að það sé gott að fljóta alveg kærulaus um allt úti í honum — helzt langt úti!

HJÁLMAR:

Þér hafið ekki verið lánsamar, og svo þegar hann kom heim misbauð hann yður, ef til vill, það hef jeg heyrt.

Frú SIGRÍÐUR:

Hver hefur sagt yður það?

HJÁLMAR:

Það var maður, sem jeg ekki spurði um það. — Viljið þér nú ekki segja mér, hvort það er satt eða ekki.

Frú SIGRÍÐUR:

Þess háttar getur maður ekki sagt neinum.

HJÁLMAR:

Hvernig stendur á því, að önnur eins kona og þér, eruð ekki farnar héðan fyrir lifandi löngu?

Frú SIGRÍÐUR:

Það er hægra um að tala, en í að komast. Vegna Höddu hef jeg mátt líða mikið. Meðan hún þurfti mín við á heimilinu gat jeg ekki farið, þó jeg hugsaði mig svo þúsund sinnum burt. — Svo hefur maður optast þessa heimskulegu von, að nú kunni að fara að birta yfir.

HJÁLMAR:

En í stað þess hefur syrt yfir.

Frú SIGRÍÐUR:

Já, stöðugt á ári hverju.

HJÁLMAR:

Og dettur yður ekki í hug enn þá að fara héðan?

Frú Sigríður:

Nú gæti það vel verið, að það væri sjálf-farið fyrir mig. — Ó-jú, þegar Hadda giptist, þá fer jeg með henni.

Hjálmar:

Alfarin? Svo það var það, sem þér meintuð, þegar þér sögðuð, að við gætum kannske talazt við eptir nokkur ár?

(Frú Sigríður smáhnegir höfuðið tvisvar eða þrisvar. — Þögn).

Hjálmar:

Og hugsuðuð þér aldrei til mín allan þennan tíma? — Jeg hugsaði alltaf um yður.

Frú Sigríður:

Jeg hugsaði optast um yður, eins og dáinn ástvin. — Þér voruð dáinn fyrir mér.

Hjálmar:

Og hvernig gátuð þér hugsað svo til mín? Gjörðuð þér það alltaf?

Frú Sigríður:

Það er ekki rétt gjört af yður, að halda alltaf áfram að spyrja mig, jeg sem er svo hreinskilin í kvöld

HJÁLMAR:

Þér hafið gott af því, að opna hjarta yðar einu sinni. — Hugsuðuð þér æfinlega svo til mín?

Frú SIGRÍÐUR:

Þesshátttar getur maður ekki sagt neinum.

HJÁLMAR:

Í huga mínum voruð þ é r æfinlega lifandi.

Frú SIGRÍÐUR:

Stundum sat jeg eins og í draumi. Jeg var orðin frjáls og frí aptur, og þá komuð þér lifandi hér inn í stofuna til mín, og spurðuð mig um allt, sem þér hafið spurt mig um í dag.

HJÁLMAR:

Og hverju svöruðuð þér?

Frú SIGRÍÐUR:

Öllu því, sem mér bjó í brjósti.

HJÁLMAR:

Og hverju svarið þér nú, þegar jeg bið yður að koma með mér, og að fara aldrei frá mér aptur?

Frú Sigríður,
(beygir höfuðið niður):

Hverju jeg svara?

Hjálmar:

Þér sögðuð í dag, að heilir tugir af svoleiðis hjónum mundu búa víðsvegar hér um sveitirnar.

Frú Sigríður:

En það eru ekki konur á mínu reki.

Hjálmar:

Það eru konur, sem þora að lifa eins og hjartað og lögmál elskunnar býður þeim. — Lögmál elskunnar bentuð þér mér á í kvöld. Þær þora að vera svo lukkulegar, sem þeim er auðið að vera það, þrátt fyrir allt, sem annað fólk segir, ef það segir þá nokkurn hlut, þegar til kemur. — Það er æfinlega kvennlegt að elska. Og hver kona, sem elskar, vill helzt æfinlega kannast við, að hún gjöri það. — Þegguð vitjar hjarta okkar, þá elskum við.

Frú Sigríður:

Jeg svara — jeg svara því — að jeg veit ekki hvað það er, sem ætti að halda aptur af mér nú, — og að jeg get — að jeg vil fara með yður.

HJÁLMAR:

Þér gjörið mig lukkulegastan af öllum mönnum. — Loksins uppfyllast þessar óendanlegu vonir, sem jeg allt af hef alið. (**Kemur nær henni**).

Frú SIGRÍÐUR,
(fer undan honum):

Nei, nei! — Ekki í minni eigin stofu! — Þér megið ekki drepa gamalt ideal fyrir mér, það einasta, sem jeg á. (**Portið úti skellur í lás, síðan sjást menn ganga fyrir gaflgluggann**).

HJÁLMAR:

Nú hvað er þetta?

Frú SIGRÍÐUR:

Það var gengið um portið.

HJÁLMAR:

Svona seint? Hverjir gengu fyrir gluggann?

Frú SIGRÍÐUR:

Já, nú skil jeg. Það er hann Einar Jónsson. Hann er að láta seglin og árarnar af skektunni inn í portið. Hann geymir það þar, og hann hefur annan lykilinn að portinu, því að hann lýkur upp búðinni á morgnana.

HJÁLMAR:

Jeg sá mann með svartan silkihatt ganga fyrir gluggann, hitt voru sjómenn.

Frú SIGRÍÐUR:

Jeg tók ekki eptir því.

HJÁLMAR:

Hvaðan kemur þessi maður með silkihattinn? Ekki kemur hann af sjó.

Frú SIGRÍÐUR:

Jeg sá hann ekki. Mennirnir ganga víst strax aptur fyrir gluggann. Við skulum þá taka eptir þeim.

HJÁLMAR,
(órólegur):

Þeir eru lengi! (Eptir stutta bið er barið upp á dyrnar fram á kontórinn).

Frú SIGRÍÐUR:

Hvað er þetta? Kom inn!
(Einar kemur inn alvotur).

EINAR:

Fyrirgefið þér frú!

Frú SIGRÍÐUR:

Nú, það hefur gefið á hjá ykkur.

EINAR:

Meira en það, bátnum hvolfdi. — Verið þér rólegar, en búizt við því versta.

HJÁLMAR:

Jeg veit hvað það er!

EINAR:

Við fórum allir í sjóinn!

Frú SIGRÍÐUR:

Þér? — þér standið hér samt!

HJÁLMAR:

Þér eruð svo ógurlega lengi að segja frá þessu. — Hefur nokkur drukknað?

EINAR:

Okkur var bjargað af bát frá landi, vorum skammt úti, og erum allir komnir í land, en —

Frú SIGRÍÐUR:

Var kandídat Kristján með ykkur?

EINAR:

Já, hann var það. — því miður.

Frú SIGRÍÐUR:

Hvar er hann nú?

EINAR:

Fyrirgefið þér, — lét bera hann inn á sófann í skrifstofunni, meðan læknirinn er að reyna að lífga hann við.

Frú SIGRÍÐUR,

(gengur að skrifstofuhurðinni og opnar hana, þar er kveikt ljós. Þegar hún sér fram þangað, tekur hún fyrst báðum höndunum til hjartans og þrýstir þeim síðan að höfðinu. Hún gengur síðan óstöðugt að borðinu, og styður sig þegjandi fram á það með lokuðum augunum nokkra stund):

Fyrir hvað er jeg ströffuð svona hart?

HJÁLMAR,

(við Einar til hliðar):

Jeg veit að hann er dáinn!

EINAR:

Er óvíst — hann flaut lengi á ár — hraparlegt, hraparlegt!

Frú SIGRÍÐUR,

(horfir fram á skrifstofuna frá borðinu):

Vatnið drýpur af augnalokunum á honum.

(Læknirinn kemur inn af skrifstofunni, án þess að loka hurðinni á eptir sér, hann heldur á háum silkihatti í hendinni).

LÆKNIRINN:

Hér er ekkert meira að gjöra fyrir mig.

HJÁLMAR:

Dáinn!

LÆKNIRINN:

Hryggilegt tilfelli —

HJÁLMAR:

Sjórinn hefur heimsótt okkur einu sinni enn í kvöld.

LÆKNIRINN,

(tekur upp úrið og lítur á það):

Klukkuna vantar 5 mínútur í tólf.

EINAR:

Er hann virkilega — virkilega?

LÆKNIRINN:

Já, hann er dáinn.

FRÚ SIGRÍÐUR:

Og þrjár lífsvonir með. (Brynhildur kemur inn um efri dyrnar til vinstri, ekki fullklædd).

BRYNHILDUR:

Hvað gengur á hér?

EINAR:

Fyrirgefið þér, — lét bera hann inn á sófann í skrifstofunni, meðan læknirinn er að reyna að lífga hann við.

Frú SIGRÍÐUR,

(gengur að skrifstofuhurðinni og opnar hana. þar er kveikt ljós. Þegar hún sér fram þangað, tekur hún fyrst báðum höndunum til hjartans og þrýstir þeim síðan að höfðinu. Hún gengur síðan óstöðugt að borðinu, og styður sig þegjandi fram á það með lokuðum augunum nokkra stund):

Fyrir hvað er jeg ströffuð svona hart?

HJÁLMAR,

(við Einar til hliðar):

Jeg veit að hann er dáinn!

EINAR:

Er óvíst — hann flaut lengi á ár — hrap-arlegt, hraparlegt!

Frú SIGRÍ

(horfir ... á skrifst

Vatn

(Lækn

að lok

Frú SIGRÍÐUR,

(dregur hana að sér, svo Brynhildur snýr baki við kontórhurðinni, og faðmar hana með mikilli geðshræringu að sér. Hjálmar lokar skrifstofudyrunum):

Það, sem er þyngst af öllu!

LÆKNIRINN,

(frammi við forstofudyrnar):

Góða nótt!

**(Tjaldið fellur).**

# IV. þáttur.

[Stofan hjá frú Sigríði eins og í I. og III. þætti. Lampinn logar, gluggatjöld fyrir gluggunum. Frú Sigríður og frú Guðríður].

Frú Guðríður:

Hvernig líður Brynhildi nú?

Frú Sigríður:

Nú held jeg að hún sofi. Það var hræðileg nótt bæði fyrir hana og mig. — Hún getur ekki grátið.

Frú Guðríður:

Táralaus sorg er þyngst!

Frú Sigríður:

Jeg var mjög hrædd um hana í nótt, í dag hef jeg verið rólegri; með kvöldinu sefaðist hún, það var eins og hún missti þróttinn, það er ákafleg þreyta, sem kemur yfir mann, eptir svo fjarskalega sterkar geðshræringar.

Frú Guðríður:

Og gráturinn kom ekki, þegar hann var fluttur heim í morgun?

Frú Sigríður:

Það hélt jeg nú að mundi hjálpa, þessvegna hef jeg kannske látið gjöra það of fljótt. — 2 næstu klukkutímarnir á eptir voru hræðilegastir. — Jeg hef aldrei beðið eins mikið til guðs og í nótt.

Frú Guðríður:

Og það hjálpaði þér?

Frú Sigríður:

Jeg veit ekki, — en það hjálpaði aumingja vesalings Höddu.

Frú Guðríður:

Kannske þú hafir ekki það rétta traust til þess?

Frú Sigríður,

*(með þykkju):*

Enginn lifandi maður getur sagt, hver það hefur.

Frú Guðríður:

Jeg ætlaði ekki að særa þig.

Frú SIGRÍÐUR:

Jeg er ekki eins og jeg á að mér. — Jeg hef vakað í þrjú dægur í röð og gengið allan þann tíma gegnum sterkustu geðshræringar. — Jeg er nú eins og jeg væri — eins og jeg væri drukkin, held jeg.

Frú GUÐRÍÐUR:

Ertu enn hrædd um Höddu?

Frú SIGRÍÐUR:

Nei, guði sé lof, nú hefur hún það af. Síðan hún hætti að ganga um stirð, köld og tilfinningarlaus, hef jeg gjört mér góðar vonir. — Hana vantar nú ekki annað, en að það gæti sett að henni grát, þá er öll hætta liðin fram hjá.

Frú GUÐRÍÐUR:

Hamingjunni sé lof fyrir það, að hún er úr hættu. – En þetta hefur verið óttalegt reiðarslag fyrir þig.

Frú SIGRÍÐUR:

Það var eins og jörðinni, sem jeg stóð á, væri allt í einu kippt undan fótunum á mér.

Frú GUÐRÍÐUR:

Jeg hef æfinlega dáðst að þér fyrir það,

**hvað þú ert fljót að ná þér aptur eptir hverja raun; núna finnst mér þú vera næstum jafnglöð, eptir alla þessa miklu þraut.**

Frú SIGRÍÐUR:

Maður verður að sætta sig sem fyrst við allt, úr því það er skeð. (Nær frú Guðríði). Ef mér skyldi vilja eitthvað til, viltu þá hugsa um Höddu fyrir mig?

Frú GUÐRÍÐUR:

Hvernig meinar þú?

Frú SIGRÍÐUR:

Að þú takir hana til þín eins og hún væri dóttir þín. — Hún gæti kannske ómögulega verið hjá föður sínum. — Þú veizt hann —

Frú GUÐRÍÐUR:

Ertu farin að hugsa um sjóinn einu sinni enn?

Frú SIGRÍÐUR:

Nei, nú hugsa jeg um lífið meira en nokkru sinni fyr.

Frú GUÐRÍÐUR,

(lítur á hana):

Og þú tryðir heimilinu mínu og mér fyrir Höddu?

Frú Sigríður:

Fremur öllum öðrum. Á svona vísindamanns heimili er friður og ró. — Allar syndir sofa. — Hvar sem jeg sé þig, svo er rauður lampaljóssbjarminn yfir þér.

Frú Guðríður:

Lampabjarminn er ekki lukkan í lífinu. Jeg er mikið ein. Brynhildur væri velkomin, ef maðurinn minn samþykkti að taka hana. — Það væri hrein blessun fyrir mig, að hafa alltaf hjá mér lifandi manneskju, sem talaði.

Frú Sigríður:

Og þú leyfðir Brynhildi ekki að gleyma mér?

Frú Guðríður:

Það mundi jeg ekki leyfa.

Frú Sigríður:

Og þú kenndir henni, ef þess þyrfti, að dæma mig vægt.

Frú Guðríður,
(grípur í handlegginn á henni):

Hvað er það, sem þú ert að hugsa um að gjöra? — Jeg er gömul vinkona þín — jeg vil fá að vita það! (Horfir á hana).

Frú SIGRÍÐUR:

Þess háttar getur maður ekki sagt neinum.

Frú GUÐRÍÐUR:

Já, það er satt, þú munt vilja skilja við Johnsen. — Til þess hefur þú nægar sakir.

EINAR,

(*kemur inn frá fremri dyrunum til hægri*):

Gott kvöld! — Hvernig líður?

Frú SIGRÍÐUR,

(*hálfslítur sig lausa*):

Betur en í dag. Má ekki bjóða sæti?

(*Þau setjast*).

Frú GUÐRÍÐUR:

Þegar jeg kom hingað áðan, gekk jeg fram hjá húsinu, sem hann Kristján bjó í; glugginn í herberginu hans stóð opinn. — Tveir alþýðumenn gengu framhjá, annar sagði: „Getur hún ekki lokað glugganum hjá sér þessi?“ Hinn svaraði: „Uss, segðu ekkert! Hann liggur þarna, ungi læknirinn, sem drukknaði í nótt!“

EINAR:

Hef alltaf séð þenna glugga opinn í allan dag. — Fjarska óþægilegt!

Frú Sigríður:

Jeg hef séð þenna opna glugga í allan dag í hvert skipti, sem jeg hef komið út. — Hann hefur ýft upp harma mína meira en nokkuð annað.

Frú Guðríður:

Það er eins og glugginn vildi segja: Húsbóndans er beðið, en hann er ekki kominn heim!

Einar:

Hann er heima — og þó ekki kominn heim!

Frú Sigríður:

Hann kemur aldrei heim!

Einar:

Sjaldan er ein báran stök. — Búinn að vera fyrir rétti út af slysinu í gær. — Varð að bera af mér eitthvert slúður um, að jeg hefði getað náð í Kristján þegar hann flaut burtu frá okkur á árinni. — Jeg er bæði hryggur og reiður!

Frú Guðríður:

Jeg heyrði sagt, að þegar þið voruð komnir á kjöl, hafi Kristján flotið á ár svo nærri bátnum, að þér hefðuð getað náð til hans og

komið honum á kjöl, ef þér hefðuð hugsað um það nógu snemma.

EINAR:

Jeg sá hann ekki, því að jeg snéri bakinu að honum.

Frú SIGRÍÐUR:

Kannske það eigi nú að bætast ofan á allt annað, að almenningsálitið gjöri yður valdan að slysinu. — Hvað báru hinir?

EINAR:

Allt mér í hag, fannst mér.

Frú SIGRÍÐUR:

Og trúði bæjarfógetinn því ekki?

EINAR:

Veit ekki! — Þeir eru svo algjörlega trúarlausir þessir rannsóknardómarar!

Frú SIGRÍÐUR:

Verður yður þá gjört nokkuð?

EINAR:

Aldeilis ómögulegt!

Frú GUÐRÍÐUR:

Þá er sakleysi yðar fullsannað.

EINAR:

Aldeilis ómögulegt að sanna það heldur — það getur enginn sagt hvað jeg hugsaði. meðan maðurinn flaut burtu frá bátnum — nema jeg.

Frú GUÐRÍÐUR,
(lágt við frú Sigríði):

Brynhildur er mjög fríð stúlka! — Ertu viss um, að Einar geti ekki hafa haft neina ástæðu til að lofa öllu að fara eins og fór?

Frú SIGRÍÐUR,
(lágt):

Engin þess háttar ástæða er til

Frú GUÐRÍÐUR:

Hamingjunni sé lof!

EINAR:

Fyrirgefið þið, frúr! Og þér, frú Johnsen, sérstaklega. — Verð að segja það, að frú Thorkelín er allra versta kerling. — Hatar yður og ykkur báðar. Ættuð að kasta henni á höfuðið út um gluggann, ef hún kemur inn til ykkar —

Frú GUÐRÍÐUR:

Og jeg ofan af fyrsta sal!

EINAR:

Þó það væri fjórða! — Thorkelín enginn vinur Johnsens, frú Johnsen, lætur heldur aldavin sinn fara á höfuðið, en að rétta honum hjálparhönd sér að skaðlausu.

Frú SIGRÍÐUR:

Erum við hér komin upp á Thorkelín nú?

EINAR:

Ýmsa erfiðleika að buga, frú Johnsen. Maðurinn yðar ekki heima, því miður — veit ekkert um slysið. —

Frú SIGRÍÐUR:

Hann hlýtur að frétta það!

EINAR:

Alveg satt — má til. — En Thorkelín er reglulega svívirðilegur okurkarl. — Hann væri maður, sem gæti notað sér neyð annara. —

Frú GUÐRÍÐUR:

Þér þurfið ekki að lasta hann, við förum nærri um hvernig hann er.

Frú SIGRÍÐUR:

Hvað er það, sem hefur sett yður í svona illt skap?

EINAR:

Fengið ýms bréf frá grósseranum með enska gufuskipinu, sem fer í nótt —

Frú SIGRÍÐUR:

Fer gufuskip í nótt?

EINAR:

Já. — Þeir vita lítið þessir herrar, sem allt af sitja á kontórnum sínum, hvað það er, sem þeir skipa; þeir þurfa ekki að horfa upp á framkvæmdirnar á því. — Ekki að sjá — konu og — og — þeir þurfa ekki að horfa upp á sorgina —

Frú SIGRÍÐUR:

Hvenær fer enska gufuskipið í nótt?

EINAR:

Þessar kontórhetjur! — Skipa, án þess að depla augunum — sjá ekkert, eldingunni slær glóandi niður í 300 mílna fjarlægð. — Allt líf visnar undan reiðarslaginu, — grátur og vein! — En þeir ganga heim til sín, reykja bezta vindilinn, sem þeir eiga, — og þegar þeir frétta, að maðurinn, sem fyrir því varð, hafi skotið sig, eða drekkt sér, svo spyrja þeir, því hann hafi gjört það.

Frú Sigríður:

Hvenær fer enska skipið í nótt?

Einar:

Kl. 4, er mér sagt.

Frú Sigríður,
(lítur á úrið):

Þér eruð mjög gramur, herra bókhaldari.

Frú Guðríður:

Ætli það sé ástæðulaust?
(Barið upp á efri dyr til hægri).

Frú Sigríður:

Það er stúlkan, sem er að kalla á mig, að koma til Brynhildar. (Kveður frú Guðríði, og fer).

Frú Guðríður:

Hvað er að gjörast hér á heimilinu?

Einar:

Í fjallinu fyrir ofan það hefir ávallt verið skriðuhætt, og nú er stærsta skriðan hlaupin ofan, — það þarf ekki fleiri!

Frú Guðríður:

Þér talið óskiljanlega.

EINAR:

Í fyrra málið — sannið þér til — stendur ekki steinn yfir steini á þessu heimili.

JOHNSEN,

(kemur skyndilega inn um forstofudyrnar):

Og þú ert hér, Einar; jeg frétti upp á heiðum, að það væri búið að taka þig fastan, svo jeg þorði ekki annað, en að hraða mér heim.

EINAR:

Fyrir hálfgjört manndráp?

JOHNSEN:

Já!

EINAR:

Allt lygi! — Heimurinn forgengur af heimsku eða lygum, þegar þar að kemur.

Frú GUÐRÍÐUR:

Og þér hafið frétt slysið?

JOHNSEN:

Kristján drukknaður?

Frú GUÐRÍÐUR:

Já, — en kringumstæðurnar hér í húsinu framar öllum vonum.

JOHNSEN:

Hvar er aumingja Hadda?

Frú GUÐRÍÐUR:

Uppi á herberginu sínu. Það er bezt, að þér komið ekki til hennar.

JOHNSEN:

Nú — þá það! — Já, þér eruð vina okkar.

Frú GUÐRÍÐUR:

Góða nótt! (Fer).

JOHNSEN og EINAR:

Góða nótt!

EINAR:

Nú eru þá spádómarnir mínir að koma fram. – Enska skipið er komið!

JOHNSEN:

Nú, — þá það!

EINAR:

Og með því bréf frá Grósseranum!

JOHNSEN:

Og það bréf?

EINAR,

(tekur upp bréf, sem hann fær Johnsen, og hann byrjär að lesa):

Nei, rólegur, Johnsen! — Guð varðveiti þig, maður! — Vertu karlmaður, Johnsen! —

JOHNSEN,

(missir bréfið á gólfið, og sezt bleikur á stól; hvíslar):

Hvað er í bréfinu, Einar?

EINAR,

(tekur bréfið upp):

Má ekki liggja á gólfinu, kvennfólkið má ekki sjá það! — Þú átt að fara frá verzluninni, ef —

JOHNSEN,

(grípur í handlegginn á honum):

Já, hvaða ef? — Fljótt, Einar, fljótt!

EINAR:

Ef þú ert í skuld við verzlunina, þegar reikningurinn er gjörður upp, nú eptir fjórtán daga.

JOHNSEN:

Það var meira. Hvað var það?

EINAR:

Og ef þú ekki getur borgað þá skuld til fulls með það sama.

JOHNSEN:

Og verð jeg í skuld? — Er það áreiðanlegt?

EINAR:

Varið öllum mínum tíma, síðan á dansleiknum, til að komast fyrir það — skuldin verður 5300 kr., eða þar um bil. — Getum aldeilis ekki borgað það. — Bankinn neitar að lána!

JOHNSEN:

En Thorkelín?

EINAR:

Hef talað við Thorkelín. Hann vill lána helminginn móti minni ábyrgð. — Veit allt, hvað við liggur. — En með hitt er hann, eins og maður höggvi í harðan stein.

JOHNSEN:

Og jeg hef verið vinur hans í 20 ár!

EINAR:

Grósserinn er harður. Vill fá allt strax.

Allt á að ske í miðjum næsta mánuði — Afsetningin líka Johnsen!

JOHNSEN:

Og jeg hef þjónað honum í 25 ár! Og framan af græddi hann stór fé fyrir mitt tilstilli.

EINAR:

Skaði síðustu ár.

JOHNSEN:

Jeg finn, að jeg er búinn að vera. Segðu mér! Hver tekur við af mér?

EINAR:

Það á jeg að gjöra Johnsen.

JOHNSEN:

Gjörðu bón mína! Taktu Brynhildi á skrifstofuna, eins mikið og þú getur, þú heldur, að hún geti það.

EINAR:

Ætlaði einmitt að gjöra það. Get jeg ekkert fleira gjört fyrir þig?

JOHNSEN:

Jú. Að taka við öllu af mér strax. —

Allir lyklar og bækur eru á skrifstofunni, jeg ætla afhenda þér það nú. Réttu mér hönd, svo jeg geti reist mig upp. — Svona! — Það er komið blý í fæturna á mér. — Þú manst, hverju þú lofaðir mér með Brynhildi.

EINAR:

(Í því Johnsen er vel horfinn fram á kontórinn): Revolverinn er þar hlaðinn! — (**Hleypur fram á kontórinn**). Hvað, hvað, Johnsen! (**Dregur hann inn, og tekur revolverinn, sem Johnsen hefur í hendinni, af honum**). Heldurðu, að kvennfólkið hérna í húsinu hafi ekki haft nóg slys að horfa upp á, þó þú bætist ekki við. — Hertu upp hugann Johnsen, ekki að missa móðinn!

JOHNSEN:

Ólán okkar er svo takmarkalaust.

EINAR:

Ykkar, sem drekkið mikið?

JOHNSEN:

Já. – Við missum alla vini, við missum allar stöður, sem við höfum komizt í, og síðast fáum við enga!

EINAR:

Þú ert ekki kominn svo langt enn, Johnsen.

JOHNSEN:

Jú, jeg er það. — Skilaðu mér revolvernum, sem þú tókst af mér.

EINAR:

Nei! Leyfi þér ekki að breyta svo móti dömunum hér í húsinu.

JOHNSEN:

Þú hefur æfinlega verið hálfbróðir þeirra, en ekki minn. —

EINAR:

Það er satt!

JOHNSEN:

Þeim færi, eins og tveimur svönum, sem klaufi skýtur á, og hittir ekki; þeir setjast á annað vatn,og syngja þar eins fagurt og áður. — Fáðu mér revolverinn! (Vill ná revolvernum af Einari, en getur ekki, því að Einar er auðsjáanlega sterkari).

EINAR:

Þú færð hann aldrei með þessu móti.

JOHNSEN,

(dregur sig á eptir Einari):

Fyrir Guðs sakir láttu mig fá revolver-

inn! Jeg pínist svo takmarkalaust. — Jeg leita þín, sem vinar, af því að jeg hef ratað í ógæfu. Jeg hef æfinlega ætlað mér að taka til þess, sem síðasta úrræðis — þegar fokið væri í öll skjól.

EINAR:

Það er ekki fokið í öll skjól!

JOHNSEN,
(á hnjánum):

Sérðu ekki, að jeg er orðinn ærulaus. — Jeg verð að afhenda grósseranum faktors-plássið með því. — Mannsblóð borgar hverja skuld.

EINAR:

Hvað hugsar þú? Nei, jeg má það ekki, þú gjörir Brynhildi vitlausa með því.

JOHNSEN:

Aumingja Brynhildi vitlausa.
(Fer að gráta; Einar reisir hann upp).

EINAR:

Hættu alveg við þetta, Johnsen. Vonin ekki úti, fyr en æfin dvín. Jeg hef fyrirtaks ráð; get hjálpað ótrúlega. — Komdu heim með mér; við skulum tala saman í alvöru. Bryn-

hildur verður hér, — fær góða stöðu. — Um allt hitt skal jeg sannfæra þig heima hjá mér.

JOHNSEN:

Ómögulegt!

EINAR:

Jú, eins og guð á mig; — geti jeg ekki sannfært þig, svo skal jeg afhenda þér revolverinn, og þú mátt brúka hann, hvernig sem þú vilt! — Ekki að missa móðinn!

(Þeir fara út forstofumegin).

(Frú Sigríður og Hjálmar Pálsson koma inn frá kontórnum).

Frú SIGRÍÐUR:

Jeg hef aldrei séð eins fallega hesta, og þessa. — Svo þér farið á morgun?

HJÁLMAR:

Í fyrramálið kl. 2—3.

Frú SIGRÍÐUR:

Svo fljótt! (Þögn).

HJÁLMAR:

Hér er allt breytt!

Frú SIGRÍÐUR:

Já, húsið hérna er að hrynja yfir mig.

Hjálmar:

Álítið þér þá ekki mögulegt, að fá annað traustara?

Frú Sigríður:

Jeg byggi ekki hallir lengur, nema í loptinu, og með Johnsen byggði Brynhildur betra og traustara, en jeg gæti gjört. Jeg byggi ekki aptur á gamla sandinum.

Hjálmar:

Já. — Gæti hún ekki byggt heimili yfir föður sinn?

Frú Sigríður:

Annað hvort hún eða engin. — Jeg ætti ekki að vera þar. (Leggur höndina hugsunarlaust á borðið).

Hjálmar:

Og gæti þá enginn byggt svo hús handa yður, að það ekki hryndi? (Tekur hönd hennar).

Frú Sigríður:

Allt, sem jeg hef byggt hingað til, hefur hrapað í grunn.

Hjálmar:

Allt, sem jeg hef byggt, stendur enn óhaggað.

Frú SIGRÍÐUR,
(dapurlega):

Æ, fyrirgefið þér, jeg á þessa hönd. — (dregur að sér höndina).

HJÁLMAR,
(stendur upp, gengur nokkur spor, og sezt niður aptur):

Nú, já. — Jeg hefði getað vitað það.

Frú SIGRÍÐUR:

Verið þér ekki gramur við mig, jeg er svo undarleg í kvöld. (Hlustar). Guði sé lof, Brynhildur grætur uppi á loptinu!

HJÁLMAR:

Viljið þér þá ekki, að jeg fari, svo þér getið farið til hennar?

Frú SIGRÍÐUR:

Nei, verið þér kyrr! Það er bezt, að hún sé ein, og ótrufluð.

HJÁLMAR:

Það er líkast til! — Jeg kem þá að því þyngsta í öllu erindinu mínu hingað.

Frú SIGRÍÐUR:

Er það þyngsta eptir? — Það, sem við höfum talað um, hefur þó ekki verið gleðilegt.

HJÁLMAR:

Jeg bið yður að fyrirgefa mér, að jeg hefi nú aptur gengið í veg fyrir yður á lífsleið yðar. Jeg gat ekki að því gjört, hvernig eitt orðið tók annað með sér, þegar við töluðum saman nú.

Frú SIGRÍÐUR:

Það gat jeg heldur ekki. Jeg gat ekki stillt mig um, að segja yður ofurlítið brot úr því, sem jeg hef verið að hugsa um í mörg ár.

HJÁLMAR:

Þér ætluðuð að fara með mér héðan. Nú hefur svo mikið komið fyrir, að mér finnst, að þér getið ekki bundið enda á það. — Það þyngsta fyrir mig er að gefa yður þetta loforð yðar eptir.

Frú SIGRÍÐUR,

(brosir):

Viljið þér þá vera að því?

HJÁLMAR:

Brynhildur gengur með sárustu sorg; vonir yðar með hana hafa brugðizt, og heimili yðar — heimili yðar er að hrynja.

Frú SIGRÍÐUR:

Jeg hef aldrei eina stund átt heimili hér.

HJÁLMAR:

Aldrei átt heimili! — En þér eruð svo gjörðar, að þér yfirgefið ekki skip, sem er að sökkva.

Frú SIGRÍÐUR:

Það gjörir hver rotta á skipinu. — Með sjálfum sér verður hver lengst að fara.

HJÁLMAR:

Svo þér komið með mér?

Frú SIGRÍÐUR:

Þér hafið losað mig frá því loforði.

HJÁLMAR:

Og verð að standa við orð mín?

Frú SIGRÍÐUR:

Kunnið þér ekki bezt við það sjálfur?

(Þögn).

HJÁLMAR:

Þér hafið aldrei eitt augnablik átt heimili hér. Sú æfi, sú æfi, sem þér hafið átt!

Frú SIGRÍÐUR:

Hún hefur verið eins og svo margra annara, sem aldrei sjá glaðan dag. — Við konur

höfum hjarta — optast nær —, sem gjörir sínar kröfur, hvort sem þær fást uppfylltar, eða ekki.

HJÁLMAR:

Kemur yður það á óvænt, að jeg bið yður að koma með mér í fyrra málið? Jeg vildi reyna, að gefa yður þetta heimili, sem yður hefur vantað, og láta ókomna tímann bæta liðna tímann upp.

Frú SIGRÍÐUR:

Óvænt? Jeg hef alltaf verið að búast við þeirri spurningu, síðan þér komuð hingað inn.

HJÁLMAR:

Og þá hljótið þér að hafa svarið á reiðum höndum.

Frú SIGRÍÐUR:

Nei, jeg veit ekkert, hverju jeg á að svara.

HJÁLMAR:

Það er yður ólíkt.

Frú SIGRÍÐUR:

Jeg vildi líklegast fegin, — en get líklegast ómögulega.

HJÁLMAR,

(Dapur í bragði):

Þér yfirgefið ekki sökkvandi skip!

Frú SIGRÍÐUR:

Jú, jú, jú! Ef Brynhildur hefði ekki verið, þá væri eg fyrir mörgum árum gengin í sjóinn. En hún má ekki sökkva með skipinu.

HJÁLMAR:

Johnsen bæri þá ábyrgðina á því.

Frú SIGRÍÐUR:

Hann getur engri ábyrgð valdið.

HJÁLMAR:

Þér elskið dóttur yðar?

Frú SIGRÍÐUR:

Já — ójá — Síðan í gærkveldi hef jeg fundið til þess, að hún er mér kær.

HJÁLMAR:

Við daglega vinnu, og daglegar áhyggjur, mundi hún gleyma sorginni, sem hún ber.

Frú SIGRÍÐUR:

Skyldi það? — Jeg hef unnið hér og

mæðzt í næstum tuttugu ár, og allan þann tíma hef jeg ekki getað gleymt þeim, sem jeg unni, þegar jeg var ung.

HJÁLMAR:

Það er munurinn, að hann var lifandi, og þér gátuð alltaf haft einhverja ofurlitla von um hann.

Frú SIGRÍÐUR:

Það er satt; þessi vitlausa von hefur gjört það.

HJÁLMAR:

Ef Brynhildur væri hér ein eptir, yrði það lífsskóli fyrir hana. Þegar sorg hennar er slokknuð og dofnuð, þá er hún um leið orðin fullkominn kvennmaður, sem skoðar lífið öðruvísi, en tóman dýrðar draum. Hún reyndi að frelsa heimilið, og gæti það betur án yðar, eða svo segið þér. — Þér komið!

Frú SIGRÍÐUR:

Jeg er óráðin í því enn þá.

HJÁLMAR:

Hvenær verðið þér búnar að ráða það með yður?

Frú SIGRÍÐUR:

Jeg þarf að sjá Brynhildi fyrst. Jeg verð ráðin í fyrramálið kl. 2—3.

HJÁLMAR:

Skyldu þá örlög mín gefa mér allt það haf af lífslukku, að fá yður með mér. (Vill taka hönd hennar). Þér komið! Þér komið!

Frú SIGRÍÐUR,
(blítt):

Þér megið ekki biðja mig um að koma. Jeg hugsa bezt alein, og án annara. Ef jeg kem, þá finnið þér söðulinn minn og beizlið á græna bekknum í portinu, þar sem það var í kvöld; þér getið þá látið leggja það á; jeg verð hér í stofunni. Sé söðullinn ekki á bekknum, þá kem jeg ekki, og þá vil jeg biðja yður að gjöra ekki vart við yður hér í húsinu, þegar þér farið um götuna, því þá verður allt lokað, nema portið.

HJÁLMAR:

Jeg hef hugsað mér, að þér hefðuð ekkert með yður.

Frú SIGRÍÐUR:

Jeg kom hingað rík stúlka, og fer héðan

fátæk. Ef eg skyldi afráða að fara með yður, þá er allt undir búið (tekur 3 bréf upp úr saumaborðinu, og sýnir honum). Hann Johnsen má furða á því, að hann hefur ekki fengið svona bréf frá mér fyrri. — Í guðs bænum, kæri! það er framorðið, þér verðið að fara frá mér.

HJÁLMAR:

Jeg fer milli vonar og ótta. — En ef þér komið ekki með mér, hvað verður þá með allt, sem okkar er á milli?

Frú SIGRÍÐUR:

Það er mér þyngst að segja yður. Þá tölum við aldrei saman optar. Jeg tek undir við yður á götu, ef þér kæmuð til bæjarins, eptir það. Ef þér komið heim til mín, þá þekki jeg yður ekki. Jeg get þá ekki með nokkru hugsanlegu móti talað við yður framar. — Úr þessu verður annaðhvort að vera allt, eða ekkert.

HJÁLMAR:

Og þó viljið þér ekki gefa mér neina hugsanlega von.

Frú SIGRÍÐUR:

Þá er engin von hugsanleg fyrir okkur. (Hjálmar stendur upp, og gengur til dyranna; hún

fylgir honum til dyra; þar tekur hann hönd hennar með báðum sínum).

HJÁLMAR:

En ef þér komið? (Beygir sig yfir hönd hennar, og kyssir hana ákaft, og hún beygir sig nokkuð yfir hann).

Frú SIGRÍÐUR:

Þá fylgi jeg yður á heimsenda.

(Hjálmar fer. Hún gengur óstöðugt inn aptur. Gufuskipsklukka heyrist hringja úti til hægri; hún sezt við saumaborðið, og felur andlitið í höndum sér. Brynhildur kemur, grátin og föl, inn um efri dyrnar til vinstri)

BRYNHILDUR:

Mamma, sefur þú?

(Frú Sigríður heyrir ekki).

BRYNHILDUR:

Mamma, sefur þú?

Frú SIGRÍÐUR,
(rankar við sér):

Ertu enn á fótum Hadda mín? Þú ættir að leggja þig til svefns. (Horfir á hana). Er þér nú léttara um hjartað?

BRYNHILDUR:

Já. Ef jeg mætti gjöra það, sem mig

langar mest til af öllu, þá yrði allt hægra fyrir mér.

Frú Sigríður:

Og hvað er það?

Brynhildur,

(nær henni):

Mig langar svo til, að koma í húsið, þar sem hann liggur, og sjá hann einu sinni enn. Getur það gengið?

Frú Sigríður:

Ekki nú um hánótt, en á morgun. Gjörðu það þá.

Brynhildur:

Æ. Guði sé lof, að jeg má það!

Frú Sigríður:

Þú hefur liðið mikið, þú þarft hvíld.

(Tekur upp hanzka úr borðinu, og mátar hann).

Brynhildur:

Hver var hérna niðri hjá þér áðan?

Frú Sigríður:

Hjálmar Pálsson. — Hann spurði eptir þér.

BRYNHILDUR:

Hvenær fer hann af stað?

Frú SIGRÍÐUR:

Á morgun.

BRYNHILDUR:

Kemur hann hér áður?

Frú SIGRÍÐUR:

Því spyrðu um allt þetta, Hadda? (**Lítur á hana, og leggur niður hanzkann**).

BRYNHILDUR,

(**þegir litla stund, og lítur svo niður**):

Mér finnst, að jeg þurfi endilega að heyra þig segja eitthvað.

Frú SIGRÍÐUR,

(**lítur á úrið sitt**):

Heldur þú, að það væri sorg fyrir þig, að missa mig nú?

BRYNHILDUR:

Mér finnst, að jeg beri nóga sorg fyrir heila mannsæfi áður.

Frú SIGRÍÐUR:

Jeg meina, ef jeg færi burt?

BRYNHILDUR:

Mér finnst enginn söknuður mikill nú, nema sá, sem jeg ber.

Frú SIGRÍÐUR:

Jeg hefði ósegjanlegt yndi af því, ef þú vildir spila fyrir mig eitt einasta lag.

BRYNHILDUR:

Músíkin er farin úr fingrunum á mér. Heldur einhvern tíma seinna.

Frú SIGRÍÐUR:

Þú þarft að hugsa um eitthvað annað, en það, sem þú berð í huganum. Hugsaðu þér það, að jeg biðji þig aldrei framar.

(Brynhildur sezt við fortepíanóið. Frú Sigríður gengur fram í forstofuna; glerhurðin er opin milli þeirra).

BRYNHILDUR,

(eptir að hafa borið sig til við hljóðfærið):

Æ, jeg get ekki, móðir mín!

Frú SIGRÍÐUR:

Jeg þarf líka að fá að heyra til þín. Stundirnar, sem þú söngst og spilaðir fyrir mig, hafa verið ununin mín hér. — Jeg bið í síðasta sinni!

BRYNHILDUR,

(lítur um öxl til hennar, bregður við, og lítur undir eins af henni aptur):

Í síðasta sinni! .... Á jeg að syngja fyrir þig um Krist á Genezareth, þegar hann lægir storminn?

Frú SIGRÍÐUR,

(kemur inn í reiðfötum, treyjan er ekki alveg hneppt, og með reiðhatt, með hvítu slöri í hendinni):

Hm! — Þegar hann lægir storminn?

BRYNHILDUR,

(án þess að líta til hennar, í lágum tón):

Guð lægir alla storma.

Frú SIGRÍÐUR,

(leggur reiðhattinn sinn á saumaborðið):

Já, já! — En suma ekki, fyrr en skipið er sokkið, og skipshöfnin er drukknuð. — Nei, eitthvert annað lag.

BRYNHILDUR:

Jeg neita þér heldur ekki um það, móðir mín, en nú skal jeg ráða því sjálf, hvað jeg syng. (Hún spilar og syngur):

1.

Hann hraustur var, sem dauðinn, og hugrakkur, sem ljón,

og hverjum manni fremri, að verja ættarfrón.
Samt féll hann í ónáð, og enga fann þess bót.
Hann yfirgaf svo land sitt, borg, og festarsnót.

2.

Á ókunnugum stigum allir þekktu hann,
með óvinunum fornu hann margan sigur vann.
Þeir drukku opt hans minni, og dáðu hann
í söng,
og dagur hver var glaðvær, en nóttin varð
svo löng.

3.

Hans borg lá heima í rústum, hans blíða meyja-
val
ei bein hans fékk að grafa, þau hvítnuðu í val.
En borgina hans auðu, og brotnu — segir
drótt —
einn bleikur gistir riddari á hverri föstunótt.

Frú Sigríður:

Mig hefur stundum langað til þess, að þú mættir syngja mig burtu úr lífinu, Hadda mín.

Brynhildur:

Í kvöld þykir mér kvæðið einskis vert. Einmanalegt væri það víst, að eyða æfinni einn síns liðs á framandi stað, innan um tómt ókunnugt fólk.

Frú SIGRÍÐUR:

Ekki, ef maður á þar einn einasta hjartkæran vin.

BRYNHILDUR:

Sá, sem yfirgefur sína — hvort sem það er karl eða kona — hlýtur við og við að hafa sára þrá eptir þeim.

Frú SIGRÍÐUR:

Ef hann hefir haft frá háum heimi að hverfa; en það eru ekki allir, sem eiga það.

BRYNHILDUR:

Hvert heimili er heimili, hvernig sem það er.

Frú SIGRÍÐUR:

Og þá eins heimili á ókunnugum stað.

BRYNHILDUR:

Vildir þú eiga svoleiðis heimili, móðir mín?

Frú SIGRÍÐUR:

Já, því ekki það? Það er komin sterk vorþrá yfir mig.

BRYNHILDUR:

*(Stendur upp, snýr sér að móður sinni hálfgrátandi):*

Ætlar þú burtu frá mér nú strax?

Frú Sigríður:

Jeg hef ekkert að gjöra hér lengur.

Brynhildur:

Og þú ferð ekki ein?

Frú Sigríður:

Nei. — Jeg leita lukku minnar, eins og þú gjörðir fyrir liðugum sólarhring, með öðrum.

Brynhildur:

Mér var það leyfilegt.

Frú Sigríður:

Annað sagði faðir þinn við mig í fyrstunni.

Brynhildur:

(Niðurlút og sorgbitin.)

Minn aumingja afvegaleiddi faðir!

Frú Sigríður:

Það er ekki mér að kenna, að hann er það.

Brynhildur:

Og þú hugsar ekkert um, að þú ert ekki frjáls, og að hjónabandið er stofnað af guði.

Frú Sigríður:

Jeg trúi því ekki, að fyrirkomulag, þar sem annar er herra, en hinn þræll æfilangt,

hafi svo háleitan uppruna. Í mínum eyrum er það guðlast, að segja slíkt. Enn ef þú meinar, að guð hafi skapað ástina milli manns og konu, þá er eg samdóma, og þá er setningin engin sönnun á móti mér.

BRYNHILDUR:

Og þú hugsar ekkert um aumingja föður minn?

Frú SIGRÍÐR:

Fari jeg burtu, þá þarf hann engan vansa að gjöra sjálfum sér með meðferðinni á mér framar.

BRYNHILDUR:

Öðru hefur þú heitið honum.

Frú SIGRÍÐUR:

Hann hefur líka mörgu heitið mér, og ekki efnt. Þegar tveir hafa lofað hvor öðrum einhverju, þá er ekki nóg, að annar haldi það. Jeg hefði ekki verið ólukkulegri þessi ár, sem jeg hef verið hér, þótt jeg hefði verið þau öll í tugthúsinu. Og jeg hefði alveg eins reynt að brjótast út þaðan, eins og jeg reyni að yfirgefa þetta hús nú, ef jeg hefði haft færi á því.
Þú þarft ekki að horfa svona á mig; það sem jeg segi er satt, eins og lífið sjálft.

Brynhildur:

En ef hinn bregst þér, hvar stendur þú þá?

Frú Sigríður:

Við erum bæði svo ráðsett, að það eru lítil líkindi til þess, að hugsunarhættir okkar breytist. — En ef svo færi, þá hefði jeg þó lifað lukkuleg, einhvern tíma af æfinni, og jeg get ekki hugsað mér neitt dauflegra, en það, að fara ofan í gröfina, án þess að vita, hvað lukka er; þá væri betra að hafa aldrei lifað.

Brynhildur:

Og hvað á að verða um mig?

Frú Sigríður:

Vertu föður þínum góð dóttir, ef það er unnt.

Brynhildur:

Jeg get engu við hann ráðið, þó mér þyki vænt um hann, og honum um mig.

Frú Sigríður:

Frú Guðríður hefur lofað mér, að taka við þér.

Brynhildur:

(Grátandi.)

Ef þú yfirgefur okkur svona, þá get jeg

aldrei nefnt þig framar á nafn. Allir munu þykjast sjá blett þinn á mér. Hlífðu mér, vægðu mér, mín móðir!

Frú SIGRÍÐUR:

Heldur þú ekki, að sært dýr, sem flýr undan veiðihundunum, eigi erfitt með að hlífa þeim, sem vilja standa fyrir því.

BRYNHILDUR:

Því léztu mig vita þetta allt saman?

Frú SIGRÍÐUR:

Jeg ætlaði ekki að stelast burtu héðan. Jeg á mig sjálfa. Komdu þessum bréfum, þegar jeg er farin. (Tekur þrjú bréf upp úr saumaborðinu, og leggur þau á borðið, og lyklakippu ofan á þau.)

BRYNHILDUR:

Klukkan er yfir 2; jeg veit, að hann kemur bráðum að sækja þig. (Opnar forstofudyrnar.) Fyrst eg mun eiga að bera minn part af dómunum, sem þú færð, þá vil jeg eiga það skilið. Jeg skal fylgja þér út, og kveðja þig á hestbaki. Farðu hvert sem þú vilt, mín mædda móðir, og guð veri æfinlega með þér. (Frú Sigríður berst við sjálfa sig. Hestatramp heyrist nokkuð frá, og færist nær.) Hann kemur!

— Flýttu þér út, þið verðið að komast af stað, áður en birtir meira. Á morgun, þegar jeg vakna, fylgi jeg þér í huganum út í heiminn.

Frú Sigríður:

Þú ferð til frú Guðríðar, þegar jeg er farin?

Brynhildur:

Nei. — Jeg hef mikið að gjöra hér. Far þú, mín móðir! Gatan dunar, þeir eru rétt við húsið! Á morgun ætla jeg að byrja baráttuna hérna á heimilinu, sem þú hættir við í kvöld.

Frú Sigríður:

Nei, það má ekki ske. — Flýttu þér út, og taktu söðulinn minn af bekknum, og berðu hann inn.

Brynhildur:

Jeg tók hann inn áðan, áður en jeg kom hingað; en nú skal jeg bera hann út aptur.

Frú Sigríður:

Nei, nei, lokaðu forstofunni. (Hún slekkur sjálf ljósið, Brynhildur tekur gardínuna frá hliðarglugganum, og dauf dagsbirta fellur inn á þær. Frú Sigríður lokar forstofuhurðinni. Portinu heyrist skellt úti.) Drengurinn gengur inn í portið! — Hann grípur í tómt! Hvað kærir drengurinn sig um það?

BRYNHILDUR:

Ljúktu upp fyrir mér dyrunum, nú eða aldrei, jeg þarf að segja þeim, að þú komir.

Frú SIGRÍÐUR:

Og þú ætlar að verða ein hér eptir í húsinu, og lifa hér þeirri æfi, sem jeg hef átt?

BRYNHILDUR:

Já, elskulega móðir mín, hvað sem það kostar mig, og hvað sem jeg fæ að reyna — Ljúktu upp.!

Frú SIGRÍÐUR:

Nei, það skal aldrei verða! — Jeg hef engum lofað að koma. — Jeg yfirgef ekki sökkvandi skip. (Portinu úti er skellt í lás).

BRYNHILDUR,

(fjarska glöð)

Þú ert eins mikil og sólin!

Frú SIGRÍÐUR:

Nefndu ekki sólina barnið mitt! Þú hefur ekkert unnið við það, að jeg verð kyr. Johnsen hefur misst líkindin til þess, að fá konu, sem væri betri fyrir hann, en jeg er. Fyrir mig er engin lukka framar til á þessari

jörð! — Og hann þarna úti! — Mannfélagið, það hefur þá víst unnið allt það, sem við þrjú höfum tapað; það getur núið saman höndunum. (Hestatramp fyrir utan, sem fjarlægist. Með geðshræringu). Heyrirðu, hvernig gatan dunar undir hestahófunum?

(Gufuskipsklukka hringir í annað sinn úti, til hægri handar. Frú Sigríður gengur fram í forstofuna, til þess að fara úr reiðfötunum. Einar Jónsson kemur inn frá kontórnum).

EINAR:

Fyrirgefið þér mér! — Nú, eruð þér hér jungfrú Brynhildur?

BRYNHILDUR:

Já hamingjunni sé lof, að jeg hef verið hér.

EINAR:

Getið þér heyrt, hvað sem vera skal?

BRYNHILDUR:

Jeg vona það.

EINAR:

Já, jungfrú! Vilduð þér ekki — þegar þér getið það fyrir sorg og eptirsjá — verða bókhaldari hér við verzlanina í staðinn minn? — Ágæt kjör, styttri vinnutími, en jeg hef haft, — 8 tímar á dag.

BRYNHILDUR:

Það væri mikil lukka fyrir mig, að vera mestan hluta dagsins bundin við vinnu, sem jeg þarf að hafa hugann fastan við.

Frú SIGRÍÐUR,
(fram að Einari).

Því spyrjið þér að þessu? Hvað verður um yður?

EINAR:

Fer ekki langt. – Stórt nýtt ólán frú Johnsen!

Frú SIGRÍÐUR:

Hvað er nú? Hvað er nú?

EINAR:

Búið að setja Johnsen frá faktorsstöðunni.

Frú SIGRÍÐUR:

Hver tekur við, og hvenær á jeg að fara héðan úr húsinu?

EINAR:

Jeg tek við — og þér þurfið aldrei að fara héðan.

Brynhildur:

Og faðir minn er langt burtu.

Einar:

Ekki langt undan.

Frú Sigríður:

Hvar er hann? — Fljótt, fljótt Einar!

Einar:

Johnsen er að búa sig til ferðar. Ætlar af stað til Ameríku með skipinu, sem var að hringja núna. — Megið ekki halda honum lengi!

(Johnsen kemur inn frá kontórnum, með vaðsekk í hendinni. Brynhildur fleygir sér um hálsinn á honum).

Johnsen:

Já jeg fer til Ameríku; jeg á vist pláss þar, hjá honum Jónasi, sem var hérna í búðinni. Jeg verð ráðsmaður, og skytta. — Jeg skal senda þér vænan bjarndýrsfeld, Einar! — Þú ert velkomin til mín Hadda, þegar þú vilt.

Brynhildur:

Guð fylgi þér faðir minn.

Frú Sigríður:

Mér sýnist, að nýja staðan sé hættuleg fyrir þig.

Einar:

Whisky og allt áfengi er ófáanlegt í 100 mílna fjarlægð.

Johnsen:

Það er einmitt byggðarlag fyrir mig.

Einar:

Og þér frú Johnsen verðið hér kyrrar, svo lengi sem yður sýnist, eða svo stutt, sem yður sýnist.

Frú Sigríður:

Þú ert ekki nema hálfbróðir minn, en þú hefur æfinlega verið mér eins góður, og þú værir albróðir minn.

Einar:

Gleður mig yfir máta, að heyra yður segja það frú Johnsen. (Það er barið á gluggann) Kapteinninn af enska skipinu, sem hefir lofað að taka Johnsen um borð með sér! (kallar út) we shall come in a moment!

(Morgunsólar geislarnir falla inn í stofuna).

JOHNSEN:

Sigríður! Þegar jeg er farinn, vil jeg, að allt sé búið á milli okkar. Sæktu um skilnað í fyrramálið. Jeg gjöri sama undir eins og jeg kem vestur. — Við þurfum ekki að skilja sem neinir óvinir fyrir því.

Frú SIGRÍÐUR:

Já skilja — sem vinir.

JOHNSEN:

Jeg skil ekki, hvernig þú nokkurn tíma gazt fengið þig til að eiga mig. — Nú já! — Jeg hef ekkert tekið með mér til minnis um þig.

(barið aptur á gluggann).

EINAR:

Komdu þá í herrans nafni Johnsen!

Frú SIGRÍÐUR,

(brýtur rós af einu rósintrénu, og festir hana í hnezl-una á frakka Johnsens)

Farðu vel!

JOHNSEN:

Fyrirgefðu allt! —

(frú Sigríður nikkar).

EINAR:

Tíminn líður! — Tíminn líður!

(Einar og Johnsen fara; Brynhildur fer út að glugganum og opnar hann).

BRYNHILDUR:

Nú eru þeir í bátnum. En Einar kemur aptur. Ó móðir mín! (fleygir sér í fangið á henni) Við skulum halda fast saman!

FRÚ SIGRÍÐUR:

Og heilsa í sameiningu hinum komandi degi.

(morgunsólin skín inn á mæðgurnar í faðmlögunum, og gufuskipsklukkan hringir í þriðja sinni).

**(Tjaldið fellur seinlega).**

Hr rector Björn Olsen
[illegible]
Indr. Einarsson

Indriði Einarsson:

# Skipið sekkur.

## Sjónleikur í fjórum þáttum.

---

**Einkunnarorð:**
„Det ena du vill, det andra du skall,
så plär det mest gå í dylika fall“.
*Kerstín Svíadrottning*
(risti með demanti á rúðu).

Bessastaðir.
Kostnaðarmaður: **Skúli Thoroddsen.**
Prentsmiðja Þjóðviljans.
1902.